# NOKKUR BLÖÐ

ÚR

# HAUKSBÓK

OG BROT

ÚR

# GUÐMUNDARSÖGU

GEFIN ÚT

AF

JÓNI ÞORKELSSYNI

Á KOSTNAÐ

HINS ÍSLENZKA BÓKMENTAFÈLAGS.

---

REYKJAVÍK.

Í PRENTSMIÐJU ÍSLANDS. E. ÞÓRÐARSON.

1865.

# FORMÁLI.

Það er sama að segja um Hauk Erlendsson sem svo marga aðra ágætismenn fornaldarinnar, að vèr vildim gjarna geta rakið lífsferil þeirra, þekt forfeðr og afkomendr þeirra, athafnir þeirra og hagi; en þetta er opt mjög erfitt eða nær ómögulegt, því að frásagnirnar um þessa menn eru svo ófullkomnar og óljósar; og einkum á þetta sèr stað um þá menn, sem lifðu á því tímabili, þar sem söguöld vor hættir eða sögur vorar hætta, og á næstu öldum þar eptir. Það vill svo óhappalega til, að Árna biskups saga, er nefnir marga heldri menn í Skálholts biskupsdœmi, þar sem Haukr var fœddr og upp alinn, hættir í miðju kafli um 1290, einmitt þegar Haukr er í beztum blóma, kemr til sögunnar og fer að eiga hlut í málefnum landsins, og Laurentius saga nefnir hann ekki. Það sem vèr því vitum um Hauk Erlendsson, það verðum vèr að leita uppi í ritum hans sjálfs, íslenzkum annálum og norrœnum brèfum, en sú þekking um hann, sem þessi rit láta oss í tè, er mjög sundrlaus og ófullkomin.

Um það er enginn efi, að móðurætt Hauks er íslenzk, hún er víða rakin í þeirri Landnámabók, er Haukr hefir sjálfr ritað, og sömuleiðis í Þorfinns sögu karlsefnis; en föðurætt hans er hvergi rakin, og Haukr nefnir jafnvel ekki föðurföður sinn í Landnámabók sinni. Af því að Haukr rekr hvergi föðurætt sína, hafa menn ætlað, að hann hafi verið norrœnn í föðurætt; en eg vona, að eg geti síðar sýnt, að önnur ætlan liggr nærr en þessi. Vèr vitum af íslenzkum annálum og Árna biskups sögu, að föðurfaðir Hauks hèt Ólafr, og hafa frœðimenn áðr ætlað, að hann hafi norrœnn verið; en áðr en hann er kallaðr norrœnn, er betra að leita í þeim ritum, sem til eru um hans tíma, hvort hans finst ekki getið á Íslandi. Þessi rit eru Sturlunga saga, Landnámabók og hið íslenzka Fornbrèfasafn. Í Landnámabók og Fornbrèfasafninu finn eg engan Ólaf, sem mèr þykir líkindi til vera að geti verið föðurfaðir Hauks; en í Sturlungasögu finn eg þrjá menn með því nafni, og gæti hver þeirra tímans vegna verið föðurfaðir Hauks. Þessir menn eru Ólafr Hauksson Þorgilssonar

frá Haga á Barðaströnd, Ólafr Svartsson og Ólafr tottr. þess er getið um Rafn Sveinbjarnarson, að hann kom frá Sturlu þórðarsyni úr Fagradal haustið 1212; hafði hann ætlað að hitta þar þorvald Vatnsfirðing og sættast við hann, en þorvaldr kom ekki; en á heimleiðinni kom Rafn í Haga á Barðaströnd, og var við brúðkaup Hauks prests þorgilssonar, er hann gekk að eiga Oddnýju dóttur Steinólfs prests Ljótssonar (Rafnssaga Sveinbjarnarsonar, 17. k., Sturl. 4, 16: II 31). Haukr prestr þorgilsson var enn í Haga árið 1234, og er þá getið tveggja sona hans, Ólafs og Páls; voru þeir þá orðnir svo stálpaðir, að hann gat sent þá suðr til Eyrar til þórðar Sturlusonar (Sturl. 5, 33: II 161). Haukr prestr og synir hans voru vinir þórðar Sturlusonar, og Ólafr Hauksson var í flokki þórðar um vorið 1235 (Sturl. 5, 38: II 169). þetta sama vor fór Órækja Snorrason um alla Fjörðu og tók fè af mönnum; tók hann þá Hagaland af Hauki presti og sömuleiðis búið; fór þá heimilisfólk Hauks á ýmsa staði; Haukr sjálfr fór á Eyri til þórðar Sturlusonar, svo og synir hans Ólafr, Páll og Oddr, og Halldóra dóttir hans. þorgils, faðir Hauks, fór í Tjaldanes; en Steinólfr Ljótsson, faðir Oddnýjar konu Hauks, fór í Búðardal (Sturl. 5. 39: II 171). Haukr prestr þorgilsson dó árið 1245 (Ísl. Ann.). þorgils Hauksson er nefndr við árið 1284, þá er höfðingjar tóku staði undir sig; hann tók þá Setberg (Árna biskups saga, 40. k., Bisk. I 734); hann getr vel verið sonr Hauks prests þorgilssonar, og Ólafr Hauksson gæti vel tímans vegna verið faðir Erlendar sterka; nöfnin Ólafr og Haukr koma hèr fram sem í ætt Hauks Erlendssonar.

Ólafr Svartsson er fyrst nefndr við árið 1238. þá var hann í Örlygsstaðabardaga með Gizuri þorvaldssyni; voru þar Dugfússonum grið gefin fyrir flutning Ólafs Svartssonar (Sturl. 6, 17: II 223); þar næst er hans getið við árið 1242; þá var hann 2. dag janúarmánaðar í Skálaholti með Gizuri þorvaldssyni (Sturl. 6, 34: II 248); árið 1264 bjó hann að Esjubergi og fór þá með sættarumleitun milli Gizurar þorvaldssonar og þórðar Andrèssonar (Sturl. 10, 25: III 316). Hann átti son, sem hèt Haukr (Sturl. 10, 22: III 313). Hèr koma og fram nöfnin Ólafr og Haukr.

Ólafr tottr er fyrst nefndr við árið 1238; hann var og í Örlygsstaðabardaga með Gizuri þorvaldssyni. þessi Ólafr tottr er án efa faðir Erlends sterka, föður Hauks. þetta verðr ljóst, ef ættartalan í Landnámabók 5,9 (á 302. blaðs. í útgáfunni 1843) er borin saman við Sturlunga sögu, 6, 17: II 222. Í Landnáma-

bók stendr: »Börkr Grímsson var faðir Ragnhildar, er Flosi Bjarnason átti; þeirra börn Einarr ok Bjarni ok Valgerðr, móðir herra Erlends, föður Hauks«. Börkr Grímsson († 24. jan. 1222; Ísl. Ann. og Ártíðaskrá í *Scriptores rerum Danicarum,* VIII. T.) átti heima á Baugsstöðum (í Stokkseyrarhreppi í Árnessýslu); önnur dóttir Barkar Grímssonar var Herdís, móðir Nikoláss Oddssonar (Sturl. 7, 3: III 8). Þessi Flosi prestr var Bjarnason (Landn.b. 5, 7, 295. bls.) og andaðist 9. október 1235 (Ísl. Ann. og Ártíðaskrá í *Scriptores rerum Danicarum,* VIII. T.). Það er sami maðrinn, sem í Sturl. 5, 50: II 188 er nefndr Flosi munkr Bjarnason, og er þar andlát hans heimfœrt til ársins 1235 (tveim vetrum fyrir andlát Magnúsar biskups Gizurarsonar og Þórðar Sturlusonar), eins og í Íslenzkum Annálum. Ólafr tottr var, sem áðr er sagt, með Gizuri í Örlygsstaðabardaga. Segir Sturlunga saga svo frá á fyrrnefndum stað, þá er Sturla Sighvatsson var yfirkominn af sárum og hafði upp gefizt: »Hjalti (biskupsson) tók annarri hendi aptr á bak sèr ok studdi hann (Sturlu) svá. Sturla kastaði sèr niðr, er hann kom skamt or gerðinu; mál hans var þá úskírt, ok þótti Hjalta sem hann beiddi prests fundar. Hjalti gekk þá í brott, en yfir honum stóð þá Ólafr tottr (tötli), mágr Flosa prests; hann skaut skildi yfir Sturlu, en Játgeirr Teitsson, mágr Gizurar, kastaði búklara yfir hann«. Mágr getr eptir fornmálinu verið bæði tengdabróðir, tengdafaðir og tengdason, svo að Ólafr tottr gat t. d. annaðhvort átt systur eða dóttur Flosa prests, eða Flosi prestr átt dóttur Ólafs totts. Mèr þykir sjálfsagt, að þessi Flosi prestr sè sami maðr sem Flosi prestr Bjarnason. Nú vitum vèr, að Börkr Grímsson var tengdafaðir Flosa prests Bjarnasonar, og vitum eigi til, að Flosi hafi verið meir en einkvæntr, og hefir því Ólafr tottr varla verið tengdafaðir hans, enda leyfir tíminn það eigi; verið getr, að Ólafr tottr hafi átt systur Flosa prests; þó er það eigi líklegt, því að þá yrði Ólafr að öllum líkindum of gamall til að vera í herferðum árið 1238. Líklegast og eðlilegast er, að Ólafr tottr hafi átt dóttur Flosa prests eða verið tengdasonr hans. Nú vitum vèr enn fremr, að Ólafr, faðir Erlends sterka, átti Valgerði, dóttur Flosa prests Bjarnasonar. Hann var því mágr (þ. e. tengdasonr) Flosa prests; en vèr vitum eigi til, að Flosi prestr hafi átt tvo tengdasonu með því nafni, og eigi verðr betr sèð af Landn.b., 5, 9, 302. bls., en að hann hafi að eins átt tvær dœtr fyrir utan Valgerði, nefnilega Þordísi og Höllu. Þordísi átti Philippus Sæmundarson Jónssonar, og Höllu Vilhjálmr bróðir hans. Af þessu,

sem nú er sagt, er það líklegt eða jafnvel víst, að Ólafr tottr sè sami maðrinn sem Ólafr faðir Erlends sterka. Þessi Ólafr tottr er og nefndr við árið 1242, 2. janúar; var hann þá staddr í Skálaholti með Gizuri Þorvaldssyni, þá er Órækja Snorrason gerði atför að honum (Sturl. 6, 34: II 248; 6, 35: II 250). Hugsa mætti, að Ólafr Svartsson væri sami maðrinn sem Ólafr tottr; en ef vel er að gáð, sèst, að það er eigi, því að Ólafr Svartsson og Ólafr tottr voru báðir með Gizuri í Skálaholti 2. dag janúarmánaðar 1242, og skyldu þar verja sinn staðinn hvor; »kirkjugarðinn skyldi verja Ketill Þorvaldsson ok Ólafr tottr, Skeiðamenn og Biskupstungnamenn fyrir austan garðinn ok alt til gestahúsa. Ólafr Svartsson ok Grímsnesingar váru þaðan til líkahliðs« (Sturl. 6, 34: II 248). Hugsazt gæti og, að Ólafr Hauksson og Ólafr tottr væri sami maðrinn; þó mun það varla vera, því að líklegra er, að Ólafr Hauksson hefði verið með Sturlu Þórðarsyni, en Gizuri Þorvaldssyni, í Örlygsstaðabardaga. Af því sem nú er sagt, er auðsætt, að Ólafr faðir Erlends sterka er sami maðrinn, sem Ólafr tottr, en hin ætlunin er röng, að hann hafi verið norrœnn.

Erlendr sterki Ólafsson, faðir Hauks, er fyrst nefndr við árið 1275, í kafla úr brèfi, sem prentaðr er í kirkjusögu Finns Jónssonar, II 10. Í því brèfi kunngjöra nokkurir íslenzkir höfðingjar Magnúsi konungi Hákonarsyni, að þeir hafi lögtekið Kristindómsbálk (þ. e. Kristinrètt Árna biskups) á alþingi. Þeir höfðingjar, er í brèfinu eru nefndir, eru þeir Árni biskup Þorláksson, Rafn Oddsson, Þorvarðr Þórarinsson, Ásgrímr Þorsteinsson, Sturla lögmaðr Þórðarson, Sighvatr Hálfdanarson og Erlendr bóndi, er án efa er sami maðrinn sem Erlendr sterki. Þar næst er þess getið við árið 1282, að brèf hafi verið rituð af Íslandi til Noregskonungs með »herra Erlendi« (Árna b. s., 36. k.). Við 1283 er í Íslenzkum Annálum getið um útkomu »Erlendar lögmanns«, og sagt, að þeir Rafn Oddsson hafi þá hafið tilkall til erfða-staða á Íslandi. Árið 1284 reið herra Erlendr á Pètrsmessu til alþingis með herra Rafni Oddssyni, herra Jóni lögmanni og herra Ásgrími Þorsteinssyni (Árn. b. s., 42. k.). Var á því þingi talað um Staðamál. Við árið 1286 er hann kallaðr lögmaðr (Árn. b. s., 54. k.), og er þess þá getið, að Árna biskupi hafi þótt Rafn Oddsson og Erlendr »gerast oddvitar ok upphafsmenn til alls ágangs við kirkjur ok kennimenn«. Sama ár rètt fyrir alþingi reið hann í Skálaholt til að tala um staðamál við Árna biskup; voru þá í för með honum Þorsteinn Örvendilsson, norrœnn maðr, Jón korpr, son

Rafns Oddssonar, og Máni Ásgrímsson þorsteinssonar (Árn. b. s., 55. k.). Við árið 1288 tala Íslenzkir Annálar um utanför hans, og hefir hann þá komið út aptr næsta ár, því að 1289 stefndi Runólfr ábóti í Veri honum utan í umboði Árna biskups þorlákssonar, sem þá var erlendis, og fór Erlendr utan það sumar (Árn. b. s., 71. k.), en kom út aptr 1290 (Árn. b. s., 79. k.), fann hann þá ábóta og kom þeim eigi saman, og stóð Erlendr í forboði næsta vetr, 1290—91. þar þrýtr Árna biskups saga. Vita menn upp frá því eigi annað um Erlend, en það sem finst um hann í Íslenzkum Annálum og norrœnum fornbrèfum. Eptir þetta er opt getið utanferða hans í annálum. Hann andaðist 1312. Hann var að ætlan Jóns Sigurðssonar (Safn til s. Ísl., II 43) lögmaðr norðan og vestan á Íslandi 1283—1289. Hvergi hefi eg fundið, hvar hann hafi búið, en líklegast þykir mèr, að hann hafi búið á Suðrlandi, því að þar ætla eg hann fœddan. Kona hans, Járngerðr þórðardóttir Böðvarssonar frá Bœ, var og sunnlenzk. Við henni átti hann dóttur, er Valgerðr hèt (Landn. b. 2, 4). Erlendr hefir að líkindum verið tvíkvæntr, og er líklegt, að Jórunn, móðir Hauks Erlendssonar, hafi verið kona hans, þótt það sè eigi tekið fram í Landn. b. (2, 25). Hún var komin af Gesti hinum spaka Oddleifssyni, er víða kemr við sögur og bjó í Haga á Barðaströnd.

Um uppvöxt og œsku Hauks Erlendssonar vitum vèr alls ekki. Hans er fyrst getið við árið 1294, og segja Íslenzkir Annálar, að hann hafi þá orðið lögmaðr, og ætlar Jón Sigurðsson, að hann hafi verið lögmaðr sunnan og austan á Íslandi 1294—1299 (Safn t. s. Ísl. II 46—47). þegar hans finst næst getið, er hann kominn til Noregs; en efi er á, hvenær hann hafi fyrst til Noregs komið. Munthe segir (Samlinger til det norske Folks Sprog og Historie I 69), og Munch eptir honum, að Haukr hafi verið kominn til Noregs 1299, en enga sönnun finn eg fyrir því, nema ef það á að vera það, sem Munthe segir í fyrrnefndri bók, á 29. bls., að Sæbjörn Helgason, Snara Ásláksson, Bjarni Auðunarson, *Haukr Erlendsson,* og fleiri hafi verið staddir í stóru stofunni í konungsgarðinum í Björgvin sunnudaginn 12. júlí 1299, þá er Eiríkr konungr Magnússon lá banaleguna. þetta sýnist hafa DN. III 72, nr. 64 við að styðjast, og sè svo, þá er það tómr misskilningur. En þótt nú Haukr eigi hafi verið kominn til Noregs 1299, þá hefir hann þó komið þangað eigi seinna en um haustið 1301, því að hann er orðinn lögmaðr í Osló 28. janúar 1302. þann dag gaf hann út brèf og kallar sig í því lögmann í Osló

(DN. I 86, nr. 93). það brèf er ritað með hendi Hauks sjálfs, og er eptirmynd (Facsimile) þess í »Annaler for nordisk Oldkyndighed« 1847. 23. nóvember sama ár var hann og í Osló, og er hann þá talinn fyrstr meðal votta í brèfi, er þar var ritað þenna dag; hann er þar og kallaðr »Haukr lögmaðr« (DN. II 58, nr. 66). 6. desember 1303 var hann í Björgvin og gaf þar út brèf ásamt Ívari lögmanni (DN. I 89, nr. 97). Finnr Magnússon segir (GhM. I 34), að hann sè kallaðr »Herra Hauker lögmaðr« í norrœnum brèfum frá 1303. Eg finn hann eigi nefndan herra, fyrr en árið 1306; í Ísl. Annálum er hann eigi nefndr herra við árið 1304; en við 1306 er hann nefndr herra. Árið 1304 var Haukr á alþingi á Íslandi; segir svo í Íslenzkum Annálum við það ár: »Haukr, Snorri ok Guðmundr lögmenn höfðu verit allir senn á þingi, ok sögðu sín lög hverr um skattgjald«. Eptir því sem Munthe segir (Saml. I 169), var hann og í Noregi þetta ár. Árið 1305 finn eg hans eigi getið. 10. apríl 1306 var hann í Björgvin, og er þá talinn með *mönnum af ráðinu;* aðrir menn af ráðinu, sem með honum eru taldir, eru herra Bjarni Erlingsson, herra Sæbjörn Helgason, herra Áki canceler, herra Snara Áslaksson, herra Erlingr Ámundason, herra Hemingr lögmaðr. Hann er sjálfr kallaðr herra Haukr lögmaðr (DN. II 71—72, nr. 82). 12. apríl sama ár var hann í Björgvin og talinn með mönnum af ráðinu (DN. III 73, nr. 64). 30. maí s. á. gaf hann út brèf með fleirum mönnum í málstofunni í konungsgarði í Björgvin (Munkalífsbók, Christiania 1845, 115. bls.), og 22. júlí sama ár gaf hann enn út brèf í Björgvin með Erlingi Ámundasyni (Munkalífsbók, 79. bls.). Í Íslenzkum Annálum er við þetta ár talað um útkomu herra Hauks Erlendssonar lögmanns, og getr það komizt heim með því móti, að Haukr hafi farið af stað frá Noregi til Íslands eptir 22. júlí. — Við 1307 finn eg hann eigi nefndan, og má vera, að hann hafi verið á Íslandi þetta ár; en við árið 1308 er í Íslenzkum Annálum getið um utanferð Hauks og kveðið svo að orði: »Utanferð sendiboðanna bróður Bjarnar ok síra Lafrans ok herra Bárðar Högnasonar ok herra Hauks Erlendssonar ok Gizurar galla. Herra Árni biskup ok herra Haukr settu lærðra manna spítala í Gaulverjabœ í Flóa«. 18. september 1309 var Haukr í Björgvin, og er þá talinn meðal þeirra manna, er voru í ráði konungs (DN. I 112, nr. 122). 17. október 1310 hefir hann gefið út brèf í Björgvin og ritað sjálfr; það brèf er prentað í AnO. 1847, 388—89. bls., og DN. II 90, nr. 103. 12. janúar 1311 gaf hann út brèf í Björgvin ásamt fleir-

um mönnum; í því brèfi er hann kallaðr *Gulaþingslögmaðr* og riddari (DN. III 94, nr. 93). Við 1312 finn eg hans eigi getið; en 13. marz 1313 var hann í Niðarósi og gaf þá úrskurð með Bjarna Auðunarsyni, Auðuni þorbergssyni (er síðar varð biskup að Hólum) Salamoni þóraldasyni, Loðni á Bakka og Óttari lögmanni (DN. V 54, nr. 57). 5. apríl sama ár var hann og í Niðarósi, og gaf þá enn úrskurð með Bjarna Auðunarsyni, Loðni á Bakka og Óttari lögmanni (DN. II 102, nr. 116). Næstu tvö ár, 1314 og 1315 finn eg hann eigi nefndan; en 23. júní 1316 var hann í Björgvin, og gaf þá út brèf með fleirum mönnum í Jónsstofu í konungsgarði (DN. I 129—130, nr. 147). 11. desember sama ár var hann og staddr í Jónsstofu í konungsgarði í Björgvin, og setti þar innsigli sitt fyrir brèf með fleirum vottum (DN. I 132, nr. 148). Svo sýnist sem hann hafi átt heima í Björgvin og verið gulaþingslögmaðr frá 1303 til 1316, og hann átti í Björgvin garð, er Auðunargarðr hèt; þann garð virðist hann að hafa selt konungi, en konungr gaf garðinn Maríukirkju í Osló 28. júlí 1318 (DN. II 114—115, nr. 133). Árið 1316 sýnist hann að hafa sagt af sèr lögmenskunni, því að þróndr Hallvarðsson var orðinn Gulaþingslögmaðr 11. des. 1316 (DN. I 131, nr. 148). Árið 1317 var hann og í Noregi að sögn Munthes (Samlinger, I 169). Eptir jól 1318 var Haukr í Osló, og gaf þá út dóm með Páli Eiríkssyni merkismanni og Páli Einarssyni lögmanni í Osló (DN. I 136, nr. 153). 14. júní sama ár var hann í sama bœ (DN. III 111, nr. 114), og 26. júlí sama ár í Túnsbergi staðfesti Hákon konungr Magnússon dóm, er þeir höfðu dœmt þorkell erkidjákn at Hallvarðskirkju í Osló, herra Páll Eiríksson merkismaðr, síra Hreiðarr og síra Páll, kórsbrœðr í Osló, herra Haukr Erlendsson Gulaþingslögmaðr og Páll Einarsson, lögmaðr í Osló (DN. II 114, nr. 132). Seint í júní 1319 var hann enn í Osló, og var þá meðal þeirra Norðmanna, er gerðu samning við sendimenn eða fulltrúa Svía um konungstekju Magnúsar Eiríkssonar (Samlinger, V 524). Í júní 1320 mun hann hafa verið í Björgvin. Má það ráða af brèfi, er Magnús konungr Eiríksson gaf út í Björgvin 23. júní 1320. Getr konungr þess í brèfinu, að hann hafi látið til sín kalla herra Hauk, herra Ketil og Snorra lögmann og marga góða menn. Nú er í Íslenzkum Annálum við árið 1319 getið um utanferð herra Ketils og Snorra lögmanns, og við árið 1320 um útkomu herra Ketils og Snorra lögmanns, og kemr þetta heim við konungsbrèfið. Hafa því þessir þrír menn, Haukr, Ketill og Snorri, að öllum

líkindum verið staddir í Björgvin á þeim tíma, er brèfið var út gefið (Kirkjusaga Finns Jónssonar, I 429—30). 1321 er Haukr aptr orðinn Gulaþingslögmaðr, því að 4. maí það ár auglýstu þeir Árni á Aski og Ormr kafli »herra Hauki lögmanni«, að maðr nokkur, að nafni Jörundr, stefndi tengdaföður sínum Bessa til lögþingis (DN. IV 140, nr. 149), og 24. júní sama ár var Haukr lögmaðr á Gulaþingi og gaf þar úrskurð með Jóni Bjarnasyni, konungsfèhirði í Noregi, Sigurði Sveinssyni, Ásláki Ólafssyni og öllum lögrèttumönnum á Gulaþingi (DN. III 119, nr. 124). 18. marz 1322 var hann í Noregi, því að þann dag gaf hann út brèf með Sæbirni Helgasyni og Bótólfi Hákonarsyni; í því brèfi er hann og kallaðr lögmaðr (DN. I 143, nr. 165).

Nú verðr eyða í sögu Hauks, er seinna kann að mega fylla, þegar fleiri fornbrèf verða út gefin; en eptir þeim ritum, er vèr nú höfum aðgang að, vitum vèr alls ekki um hann í 7 ár, frá 18. marz 1322 til 21. nóvember 1329. Þá var Haukr staddr á konungsgarði í Björgvin, og er talinn meðal þeirra, er hjá voru og samþyktu dóm Bárðar Pètrssonar Gulaþings lögmanns (DN. III 143, nr. 153). 2. júlí 1330 var Haukr enn í Björgvin; þá gáfu þeir út transskriptar (eða eptirrits)brèf Haukr Erlendsson, Bárðr Pètrsson Gulaþingslögmaðr, og Þróndr Krakason lögmaðr í Björgvin (Munkalífsbók, 115—116. blaðs.). Að því er Munch segir (AnO. 1847, 178. bls.), eru til þrjú brèf frá þessu ári, er votta, að hann hafi þá verið í Noregi, en Munch vitnar að eins til Munkalífsbókar. Við sama ár geta Íslenzkir annálar um útkomu Hauks (»útkoma herra Hauks með boðskap konungsins um kvennamál ok þat fleira, sem þar fylgdi«). Skálholtsannáll hinn forni setr þetta árið 1331. Við árið 1331 stendr í einum íslenzkum annál: »Herra Haukr ok herra Ketill reiknuðu víseyri um alt land ok fóru báðir til Noregs«, en næsta ár, 1332, er í Íslenzkum Annálum getið um utanferð herra Ketils. Síðan finn eg eigi Hauks getið, fyrr en í maí 1334; var hann í Björgvin 15. og 22. maí (Munkalífsbók, 89. blaðs. og Munch í AnO. 1847, 178. bls.). Hann andaðist 3. júní 1334 (Íslenzkir Ann. Um dauðadag hans vitnar Munch til Skálholts-ártíðaskrár).

**Kona Hauks Erlendssonar var Steinunn Áladóttir Svarthöfðasonar og Herdísar Oddsdóttur, systur Rafns Oddssonar (Landn. 2, 25, 136. bls.; 5, 9, 302. bls.; Rafnss. Sveinbjarnarsonar, 20. k.: Bisk. I 676.; Sturl. 6, 26: II 235.; Þórðar saga hreðu, Kmb. 1848, 65. bls.)[1].**

1) **Í Landnámabók virðist ættin rakin svo,** að Herdís móðir

Svarthöfði Dugfússon gekk að eiga Herdísi Oddsdóttur vorið 1240. Þeirra son Áli getr því eigi verið fœddr fyrr en 1241. Steinunn Áladóttir, kona Hauks, er því í fyrsta lagi fœdd um 1260, en líklegra er, að hún sè fœdd nokkuru síðar, svo sem 1265—1270, Ef Steinunn Áladóttir er sú sama sem frú Steinunn Ólafsdóttir, er eptir Íslenzkum Annálum dó 1361, þá hefir hún að öllum líkindum orðið að minsta kosti nírœð. Vèr vitum eigi, hve mörg börn Haukr hefir átt. Erlendr sonr hans var lögmaðr norðan og vestan 1319—1320; hann bjó að Upsum í Svarfaðardal (Laurentius saga, 34. kap.: Bisk. I 833). Bróðir Guðni Hauksson, er andaðist 1378 (Ísl. Ann.) og bróðir Teitr Hauksson, er andaðist 1381 (Ísl. Ann., 334. blaðs.) geta verið synir Hauks Erlendssonar, og er það því líklegra, sem Jórunn Hauksdóttir Erlendssonar gekk í klaustr, enda var það venja á Íslandi á þeim tímum, að heldra fólk gekk í klaustr í elli sinni. Jórunn Hauksdóttir varð abbadís í Kirkjubœ 1342.

Um Hauksbók get eg verið því fáorðari, sem aðrir hafa greinilega um hana ritað, nefnilega P. A. Munch, Jón Sigurðsson og Guðbrandr Vigfússon. Þó verð eg að fara um hana nokkurum orðum. Menn vita eigi, hvort hún hefir verið í Noregi eða á Íslandi, þegar Haukr dó; en varla getur verið efi á því, að erfingjar Hauks á Íslandi hafi fengið bókina eptir hann, og Guðbrandr Vigfússon getr þess, að á einum stað í bókinni standi með hendi frá 14. eða 15. öld: »Teitr Pálsson á þessa bók, ef hann skal óræntr vera«. Í Íslenzkum annálum við 1344 er talað um utanferð Teits Pálssonar, og árið 1375, 1. júlí, las Teitr Pálsson upp á alþingi brèf Magnúsar konungs Eiríkssonar, og stefndi með því utan nokkurum Íslendingum (Kirkjusaga Finns Jónssonar, II 213). Þessi Teitr Pálsson er að líkindum sá sami

---

Ála eða Óla, föður Steinunnar, konu Hauks, sè dóttir Rafns Sveinbjarnarsonar; en hún er eigi Rafnsdóttir, heldr Oddsdóttir, og sèst það af þeim stöðum í Rafnssögu og Sturlunga sögu, er eg hefi til vitnað (Sturl. s. 6, 25: »Um várit (1240) hafði Svarthöfði fengit Herdísar dóttur Odds Ólasonar«. Rafns s. 20. k: »Steinunni Rafnsdóttur átti Oddr Álason, ok var þeirra son herra Rafn, Ólafr ok G[uðlaugr]; Herdís var ok dóttir þeirra Odds ok Steinunnar, er átti Svarthöfði Dufgusson«). Í Landnámabók ætti á þeim tveim stöðum, er eg hefi skírskotað til, að standa »Herdísar« fyrir »Herdís« og á síðara staðnum »móður« fyrir »móðir«. Hafi Haukr Erlendsson sjálfr ritað svo sem prentað er í útgáfum af Landnámabók, þá hefir hann rakið skakt ætt konu sinnar.

sem átti Hauksbók, og getr tímans vegna verið sonarsonr Hauks Erlendssonar. Síðan vita menn ekki um Hauksbók fyrr en um 1600. Þá ætlar Guðbrandr Vigfússon að Jón lærði hafi haft hana undir höndum. Síðar fèkk Arngrímr lærði hana frá Ara Magnússyni í Ögri, og getr hann þess í bók, þeirri er heitir »*Specimen Islandiae Historicum,*« og prentuð er í Amsterdam 1643, á 154. blaðs., og segir, að bókin hafi sèr lánuð verið að boði hans hátignar konungsins;[1] en konungsbrèf það er hann ræðir um, er út gefið 17. apríl 1596,[2] og er líklegt, að hann hafi fengið bókina til láns eigi mjög mörgum árum þar eptir, eða skömmu eptir 1600. Síðan fèkk Björn á Skarðsá bókina til láns, og þar eptir Brynjólfr biskup Sveinsson. Hann lèt rita upp eptir henni Landnámabók og Kristnisögu. Virðist þá biskup að hafa sent eiganda bókarinnar, bóndamanni í Skálavík, þann hlut hennar, er hann hafði rita látið. Hinn hlutr bókarinnar varð eptir hjá Brynjólfi biskupi, og var honum aldrigi aptr skilað, og eptir andlát hans (5. ágúst 1675) fèkk Árni Magnússon hann, og segir hann sig minni, að hann hafi fengið hann frá Gaulverjabœ í Flóa. Getr það vel komizt heim, því að Brynjólfr biskup gaf eptir sig íslenzkar bœkr sínar, sögur og skrifaðar frœðibœkr frændkonu sinni Helgu Magnúsdóttur í Brœðratungu og Sigríði Halldórsdóttur lögmanns Ólafssonar, konu síra Torfa Jónssonar í Gaulverjabœ, til helmingaskipta (Jón Halldórsson í Æfi Brynjólfs biskups). Má þá vel vera, að sá hlutrinn, er handritin voru í, hafi lent hjá Sigríði Halldórsdóttur, og Árni Magnússon hafi þannig fengið þenna hlut Hauksbókar í Gaulverjabœ; en eigi vitum vèr, hvert ár það var; en hinn hlutinn (eða þau blöð, sem nú eru eptir af Landnámabók og Kristnisögu) fèkk hann eitthvað nálægt 1700 mestallan frá síra Ólafi Jónssyni (er var prestr á Stað í Grunnavík 1703—1707), en síra Jón Torfason faðir hans (er var prestr á Stað í

---

1) *Maioris sane et scientiae et diligentiae exemplar dedit ille modo dictus Hauko (floruit circ. Ann. 1308), conscripto nostra lingua opere de origine gentis Islandicae, chorographico et chronologico; quod ab autore Hauksbók nomen accepit; quem in priore huius speciminis potissimum parte secuti sumus autorem; communicatum in illum usum ab insulae nostrae viro primario et magnate Aretio Magni filio ad nutum et postulatum regiae majestatis, aeque omnibus incolis publico diplomate designatum, quorum ille ad hoc obsequium, regis mandato praestandum, facile coryphaeum se exhibuit.* 2) Það er prentað í: Magnús Ketilsson, Kongelige Allernaadigste Forordninger og aabne Breve, II 206—207.

Súgandafirði 1661--1720), hafði fengið blöð þessi hjá Bjarna Indriðasyni, bónda í Skálavík, nálægt 1670.

þegar Árni Magnússon var búinn að setja saman í eina bók þessa báða hluti Hauksbókar, voru í henni þessir þættir eða kaflar:

1) »Úr Landnámabók og Kristindómssögu *fragmenta* (þ. e. brot) nokkur.« þetta Landnámabókarbrot hefir ekki verið gefið út sèrstakt, en Kristnisögubrotið hefir verið, það sem það til nær, lagt til grundvallar við Kristnisögu, í 1. bindi Biskupasagna. Brotið byrjar í 5. kap., blaðs. $9_{10}$, og endast í 12. kap., blaðs. $28_{8}$.

2) »*Geographica quaedam et physica*« (eitthvað landfræðilegs og eðlifræðilegs efnis).

3) »*Theologica quaedam ex sermonibus Augustini*« (eitthvað guðfræðilegs efnis úr ræðum Ágústíns).

4) »*Varia atque inter ea astronomica quaedam*« (ýmislegt, og þar á meðal eitthvað stjörnufræðilegt).

5) »*Theologica quaedam, videntur esse* úr Adamsbók« (eitthvað guðfræðilegs efnis, sýnist vera úr Adamsbók).

6) »*Delineatio urbis Hierosolymorum*« (uppdráttr Jórsalaborgar). Eptirmynd þessa uppdráttar er út gefin í *Antiquités Russes*, 2. bindi.

7) »Völuspá.« Gefin út í útgáfu nefndar Árna Magnússonar af Sæmundareddu, og víðar. Munch segir (í AnO. 1847, 197. bls.), að Völuspá sè rituð með töluvert yngri hendi en frá tíma Hauks, og er hann hræddr um, að henni hafi verið við bætt eptir daga Hauks. Hún er nú aptast í Á.M. 544. 4.

8) »Trójumanna saga.« Hún er út gefin af Jóni Sigurðssyni í »Annaler for nordisk Oldkyndighed« 1848, 1.—101. bls.

9) »*De gemmis nonnulla*« (eitthvað um náttúrusteina). það er eigi út gefið, nema lítið sýnishorn, sem Munch hefir látið prenta í AnO. 1847, 190.—191. bls.

10) »Breta sögur víða ólæsar.« þær eru út gefnar af Jóni Sigurðssyni í AnO. 1848, 102.—215. bls. og AnO., 1849, 1.—145. bls.

11) »Viðræða líkams og sálar.«

12) »Aptan af Hemings sögu. þar í um Líka-Loðinn.

13) »Saga Heiðreks konungs ens vitra, vantar við endann.« Hún er prentuð í »Fornaldarsögum Norðrlanda«, 1. bindi, 513—533. blaðs.

14) »Aptan af sögu þorgeirs Hávarssonar og þormóðar Kol-

brúnarskálds.« þetta brot Fóstbrœðra sögu er út gefið af Konráði Gíslasyni í Kaupmannahöfn 1852.

15) »Algorismus, er *de Arithmetica*« (Algorismus, er um talnafrœði). þessi ritgjörð er gefin út af P. A. Munch í AnO. 1848, 353—375. bls.

16) »Saga þorfinns karlsefnis og Snorra þorbrandssonar.« Hún er út gefin í »*Grönlands historiske Mindesmærker,*« 1. bindi, 281.—494. bls., og í »*Antiquitates Americanae,*« 77.—167. bls.

17) »Saga skálda Haralds konungs hárfagra.« Hún er prentuð í Fornmannasögum, 3. bindi, 65—88. bls., þó eigi eptir Hauksbók sjálfri.

18) »Af niðjum Ragnars Loðbrókar, *fragment.*« það er gefið út í *Scriptores rerum Danicarum,* II 266—286 = þáttr af Upplendingakonungum, í Fornaldarsögum, II 101—106., og þáttr af Ragnarssonum í Fornaldarsögum, I 343—360.

19) »*Lucidarium.*« það er út gefið af Konráði Gíslasyni í AnO., 1858, 98.—154. bls.

þessir 19 töluliðir, sem Árni Magnússon taldi alla til Hauksbókar, eru nú ekki allir í einni bók, heldr hafa verið greindir í þrjár bœkr í safni Árna, nefnilega nr. 371. 4. 544. 4. 675. 4. Fyrsti töluliðr, nefnilega Landnámabók og Kristnisaga, er í nr. 371. 4. og 19. töluliðr eða *Lucidarium* í nr. 675. 4., en hinir liðirnir í nr. 544. 4.; en að allir þessir töluliðir hafi upphaflega tilheyrt sömu bók, má bæði sjá af því, að Árni Magnússon telr þá alla sem parta af sömu bók, sem og af kjalraufunum í þessum þremr bókum, eptir því sem Guðbrandr Vigfússon segir í Formála við 1. bindi Biskupasagna, XVII. og XVIII. bls.

Haukr hefir sjálfr ritað mestan hlut Hauksbókar, en hinn hlutinn allan eða að minsta kosti mestan hafa ritarar hans skrifað. Eptir því sem eg get næst komizt, hefir hann sjálfr ritað töluliðina 1, 6, 8, 9, 10, 11, 12, 13, 17, 18, og nokkuð af töluliðunum 14 og 16. Vèr sjáum af seinasta kapítula í Landnámabók, að hann hefir ritað hana sjálfr. þar standa þessi orð: »Nú er yfirfarit um landnám, þau er verit hafa á Íslandi, eptir því sem fróðir menn hafa skrifat, fyrst Ari prestr hinn fróði þorgilsson ok Kolskeggr hinn vitri. En þessa bók ritaða (ek) Haukr Ellinzsun eptir þeirri bók, sem ritað hafði herra Sturla lögmaðr, hinn fróðasti maðr, ok eptir þeirri bók annarri, er ritað hafði Styrmir hinn fróði, ok h a f ð a e k þat or hvárri, sem framar greindi, en mikill þorri var þat, er þær sögðu eins báðar, ok því er þat ekki at undra, þó þessi landnámabók sè lengri en nokkur

önnur« [GhM. I 36, samb. Íslendingasögur I b. (1843), 320. bls.]. Orðið »ek« næst fyrir framan »Haukr Ellinzsun« vantar í eptirrit síra Jóns Erlendssonar, en sá hlutr er týndr af frumriti Hauks, er þetta stóð í; en orðið »ek« hefir þó staðið í frumriti Hauks, eða Haukr hefir að minsta kosti svo til ætlað. Má það bæði ráða af orðmyndinni »ritaða,« er eigi getr verið höfð nema um fyrstu persónu, og af orðunum »hafða ek,« er eptir koma. Er því af þessum stað auðsætt, að Haukr hefir sjálfr ritað Landnámabók, enda er sama hönd og stafsetning á henni, sem á tveim fornbrèfum, þar er Haukr talar í fyrstu persónu, og án efa hefir sjálfr ritað; og eru þau nefnd hèr fyrir framan.

Það verðr eigi nákvæmlega ákveðið, hvenær og hvar Hauksbók sè rituð, en það er auðsætt, að þeir kaflar hennar, er Haukr hefir sjálfr skrifað, verða að vera ritaðir fyrir dauðadag hans 3. júní 1334. Þetta er því hið síðara takmark eða endir tímans, er hún getr verið rituð á; en þá er eptir að finna hið fyrra takmark þessa tíma eða upphaf hans. Það er í sjálfu sèr mjög líklegt, að Haukr hafi ritað Landnámabók fyrst, enda hefir Árni Magnússon sett hana fremst, þar sem hann telr upp það sem í Hauksbók var. Nú finst í Landnámabók sjálfri ávísun eða bending um, hvenær hún geti verið rituð í fyrsta lagi, eða hvert ár ritun hennar geti verið lokið í allrafyrsta lagi. Sama er að segja um Fóstbræðrasögu og Þorfinns sögu karlsefnis. Í Landnámabók Hauks 5, 9, 302. bls., er talað um frú Guðrúnu og Hallberu abbadís. Vèr vitum af Sturl. 1, 4 : I 7, að frú Guðrún var Þorsteinsdóttir Halldórssonar, og var fyrri maðr hennar Benedikt, og er hann eigi nefndr herra; seinni maðr hennar var Kolbeinn Bjarnason eða Bjarnarson Auðkýlingr; hann var herraðr, og hefir hún líklega fengið frúarnafnbótina af honum. Í Íslenzkum Annálum er við árið 1301 talað um útkomu herra Kolbeins Bjarnasonar (í Laurentius sögu, 27. kap.,er hann kallaðr Bjarnarson, og kann það að vera rèttara), og er það án efa Kolbeinn Auðkýlingr, og hafi hann verið herraðr það ár og kona hans fengið frúarnafnið þar af, þá bendir það á, að ritun Landnámabókar sè eigi lokið fyrr en 1301. En þetta verðr eigi fullsannað og verðr því að liggja milli hluta; eg get þess að eins til að vekja eptirtekt manna á því. Meira má af því álykta, að Hallbera, systir frú Guðrúnar Þorsteinsdóttur, er nefnd abbadís, því að eptir því sem segir í Skálholtsannál hinum forna (Ísl. Ann. 176. bls.), var Hallbera vígð til abbadísar árið 1299. Eptir þessu hefir Haukr lokið ritun Landnámabókar í fyrsta lagi 1299. Finnr Magnússon

segir (GhM. I 34), að Haukr Erlendsson sè kallaðr »herra Hauker lögmaðr« í norrœnum brèfum frá árinu 1303, og ef það er áreiðanlegt, hefir hann verið orðinn riddari eða herraðr árið 1303; en hann kallar sig aldrei herra í Landnámabók, og kynni sumir að vilja álykta þar af, að hann hafi ritað Landnámabók, áðr en hann varð riddari, og ef hann hefði orðið riddari árið 1303; þá hefði hann lokið að rita Landnámabók eigi seinna en 1303; en sú ályktan hefir eigi mikið við að styðjast, því að það liggr í augum uppi, að það stóð í sjálfs hans valdi, hvort hann vildi kalla sig herra eða eigi; og þótt hann sè kallaðr herra Haukr í Þorfinns sögu karlsefnis, þá þurfti hann þó eigi nauðsynlega að kalla sig herra í Landnámabók, þótt hann hefði verið orðinn riddari, er hann reit hana. Mèr finst ekkert verða ályktað af vöntun herranafnsins, og að Landnámabók geti vel verið rituð eptir það er hann varð herra. Eptir því sem nú er sagt, hefir hann ritað Landnámabók á árunum 1299—1334.

Haukr Erlendsson hefir, sem áðr er sagt, ritað nokkuð af Fóstbrœðrasögu. Í þessari sögu er getið eins atburðar, er nokkuð má álykta af um tímann, er hún er á rituð. Í 3. kap., á 67. bls., er getið um skála, er þeir gerðu báðir, síns vegar hvor, Þorgeir Hávarsson og Vegglagr smiðr, og segir þar svo: »hann stóð enn, er Árni biskup enn síðarri var vígðr til Skálaholts;« en eptir Íslenzkum Annálum, 186. bls., var Árni biskup Helgason vígðr 25. október *(in festo Crispini et Crispiniani)* 1304. Af þessu sèst, að Haukr hefir ritað Fóstbrœðrasögu (eða Fóstbrœðrasaga hefir verið rituð) í fyrsta lagi í árslokin 1304, eða á tímabilinu 1304—1334,

Haukr hefir og, sem áðr er sagt, ritað sjálfr nokkuð af Þorfinns sögu karlsefnis, en hitt hafa aðrir samtíðamenn ritað. Í fimtánda kap. þessarar sögu (GhM. I 442) er rakin ætt Hauks frá Þorfinni karlsefni, og er hann þar kallaðr »herra Haukr lögmaðr;« en með því það er enn ókunnugt, hvert ár Haukr var herraðr, verðr eigi annað ráðið af herranafninu um aldr handritsins, en að það sè ritað eptir það er Haukr varð herra, og hafi Haukr til dœmis verið herraðr árið 1306, þá er sagan eigi rituð fyrr en það ár. Hallbera Þorsteinsdóttir, sú er áðr er nefnd, er og í sama kap. kölluð »frú« og »abbadís í Reynisnesi at Stað.« Það verðr því að svo stöddu eigi annað sagt um tímann, er þessi saga er á rituð, en það sem eg hefi sagt um ritunartíma Landnámabókar. Þó er Þorfinns saga karlsefnis án efa rituð síðar en Landnámabók.

Í öðrum þáttum eða köflum Hauksbókar finst að minni vitund engin bending um, nær þeir sè ritaðir. Það er auðsætt, að þeir kaflar bókarinnar, er Haukr hefir ekkert ritað af sjálfr, og eigi standa í svo nánu sambandi við það, er hann hefir ritað, að þeir hljóti að vera því samtíða, geta verið ritaðir eptir daga Hauks, t. d. Völuspá og Elucidarius; þó ætlar Konráð Gíslason, að Elucidarius sè ritaðr um 1300 (AnO. 1858, 98. bls.), og væri hann eptir því ritaðr samtíða Hauki.

Eigi verðr neitt með vissu um það sagt, hvort Hauksbók sè rituð á Íslandi eða í Noregi. Mèr þykir líklegast, að hún sè rituð á báðum stöðunum. Með því Haukr var Gulaþingslögmaðr, sem áðr er sýnt, hefir hann án efa haft mörg vandasöm og margbrotin störf á hendi. Vèr vitum, að hann hefir ritað upp Gulaþingslög og Hirðskrá, og hrósar Munch vandvirki hans í að rita þau og velja hina skynsamlegustu lestrarmáta (AnO. 1847, 204. bls.), og það er eðlilegt, þótt hann hafi látið þetta ganga fyrir hinni eiginlegu Hauksbók, og látið hana bíða, ef hún hefir verið byrjuð, meðan hann reit upp lögin, er hann þurfti að nota við embættisstörf sín; og hefir hann án efa notað þær tómstundir, er honum síðan gáfust frá embættisstörfunum, til að rita það, er minna reið á. Það er því varla efi á, að mörg ár hafi gengið til að rita Hauksbók. Meira hlutinn af tímanum 1302—1334 hefir Haukr verið í Noregi, því að þar finnum vèr hans getið þessi ár: 1302, 1303, 1306, 1309, 1310, 1311, 1313, 1316, 1317? 1318, 1319, 1320? 1321, 1322, 1329, 1330, 1334; en á Íslandi er hans getið árin 1304, 1306, 1308, 1330, 1331; þó má vel vera, að hann hafi ritað meira hlut Hauksbókar á Íslandi, því að þar hefir hann að líkindum haft meira næði og betra tóm til þess. Hafi hann verið á Íslandi á þeim árum, er hans finst hvergi getið, frá 1322 til 1329, þá er eigi ólíklegt, að hann hafi ritað mikið af Hauksbók á þeim tíma. Frumrit þau, er Haukr hefir eptir ritað, hafa án efa flestöll, ef eigi öll, frá Íslandi verið.

Þriðji, fjórði og fimti töluliðr í Hauksbók (*Geographica quaedam et physica; Theologica quaedam ex sermonibus Augustini; Varia atque inter ea astronomica quaedam*) er það brot, sem nú kemr fyrir almennings sjónir, og tel eg þetta svo víst, að eg þykist eigi þurfa að sanna það. Eg læt mèr nœgja, að vísa til lýsingar Jóns Ólafssonar frá Grunnavík á efninu í ÁM. 544. 4., svo sem það var 1731 (sjá Þjóðólf, 16. ár, 143. bls.). En þetta brot er hvorki ritað með hendi nè stafsetningu Hauks. Þegar

það er borið saman við eptirmyndir af hendi Hauks, t. d. í Íslendinga sögum, 1. b. (Kmh. 1843), í *Antiquitates Americanae*, og AnO. 1847, þá er auðsætt, að það er eigi ritað með hans hendi. Það er eigi heldr ritað með hans stafsetningu. Hann ritar ekki *u* (að minsta kosti að sögn Munchs í AnO. 1847, 210. bls.), heldr ávalt *v* bæði fyrir *v* og *u;* hann ritar *ey* (eigi *œy*), *bæði;* en í þessu broti er ritað *œy, u, beði,* o. s. frv. Stafsetningin á broti þessu er alveg norrœn, en stafamyndirnar virðast íslenzkar; sè það ritað af Íslendingi, þá verðr hann áðr að hafa vanizt við norrœna stafsetning og norrœnan framburð; en eigi skiptir það miklu máli, hvort brot þetta er ritað af Norðmanni eða Íslendingi, því að frumritin, sem það er eptir ritað, eru að öllum líkindum íslenzk. Í þessu broti er víða vísað til Ísídórs frá Sevilla og margt úr honum tekið; en það eru líkindi til, að Íslendingar hafi haft eitthvað af ritum Ísídórs eða að minsta kosti útdrátt af þeim. Ólafr hvítaskáld hafði handrit af Donatus og Priscianus og vitnar beinlínis til þeirra; til Ísídórs vitnar hann eigi með berum orðum, en sýnist þó hafa haft rit hans um uppruna orða (*Origines*), eða útdrátt af því; og eru sumar málsgreinir hjá Ólafi nær orðrètt samhljóða Ísídór, t. d. SE. II 66: »því at vèr skiptum bækr í capítula, en capítula í klausur eða vers, en klausur í málsgreinir, málsgreinir í sagnir, sagnir í samstöfur, samstöfur í stafi.« Is. Or. XIII, 2: »*nam orationem dividit in verba, verba autem in syllabas, syllabas autem in literas.*« SE. II 88: »Aristótiles enn spaki kallar tvá parta málsgreinar: nafn ok orð.« Is. Or. I 6: »*Partes orationis primus Aristoteles duas tradidit, nomen et verbum.*« Höfundr Þorláks sögu skírskotar og til Ísídórs (Þorl. s., 3. kap.: Bisk. I 91.). Það eru því líkindi til, að alt það í broti þessu, sem tekið er eptir Ísídór, sè ritað eptir íslenzkum frumritum. Þar að auk er í 17. kapítula, 40$_{30}$, vitnað til Stjörnu-Odda, íslenzks manns, og er það einnig vottr um íslenzkan uppruna.

Af þessu Hauksbókarbroti hefir áðr verið út gefið, þó eigi eptir Hauksbók sjálfri: fyrsti kapítuli (um ár, vötn og tjarnir) í Rímbeglu, 350—354. bls., og meiri hlutr kapítulans í *Antiquités Russes* II (Copenhague 1852), 430—432; annar kapítuli *(prologus)* í AR. (= *Antiquités Russes),* 432—433; þriðji kapítuli (frá *Paradiso)* í AR. II 433; fjórði kapítuli (hversu lönd liggja í veröldinni) í AR. II 434—439; sjöundi kapítuli (hvar hverr Nóa sona bygði heiminn) í Rímbeglu, 340—342. bls.; áttundi kapítuli (frá marghátttuðum þjóðum) í Rímbeglu, 342—350. bls., og nokkuð af

kapítulanum í AR. II 440—441; 10. kapítuli (hvaðan blót skurguða hófust) í *Elucidario*. AnO. (1858) $150_{7}$—$151_{2}$. $155_{30}$—$156_{8}$. 15. kapítuli (um regnboga) í Rímb. 336. bls., en þó nokkuð öðruvís en í Hauksbók; sextándi kapítuli (um sólstöður) er líkr því, sem stendr í Rímb. 92—94. bls.

það sem Rafn hefir út gefið í AR. af þessum Hauksbókarblöðum, hefir hann látið prenta eptir eptirriti ÁM. 765. 4., og getr hann þess (AR. II 426), að Árni Magnússon hafi ritað á seðil, er í handritinu finnist, að eptirrit þetta sè »*accuratissime confererad,*« og einkum fyrsta blaðsíðan, er mjög erfitt hafi verið að lesa. Er af þessu auðsætt, að fyrsta blaðsíðan hefir þá þegar verið ill aflestrar, er Árni reit eða lèt rita þessi blöð upp úr Hauksbók. þó hefir hún án efa verið betri aflestrar þá en·nú. Rafn segir enn fremr, að þetta eptirrit Árna muni vera svo nákvæmt, að það geti gengið í stað frumritsins sjálfs[1]. það er alkunnugt, að Árni Magnússon var allra manna nákvæmastr, og að þau eptirrit, er hann hefir annaðhvort tekið sjálfr eða borið saman við frumritin, eru allra eptirrita nákvæmust; en einmitt þetta eptirrit sýnir þó, að eptirrit eru aldri óyggjandi og aldri jafngóð sem frumritið. því að í þessu eptirriti hefir t. d. verið hlaupið yfir orðin: »þar getr rœykelsi mest. þar er fiall þat, er sinai heitir« (hèr á bls. $8_{22}$. Sbr. AR. II 436, á 2. dálki; þar stendr: »þar er ok land, er Arabía heitir; á því gaf guð lög Móyse«). Sömuleiðis stendr í AR. II 439, á 2. dálki: »Norðr frá Púli er Ítalíaland, þat köllum vèr Rúmaborg;« en í Hauksbókarbroti (hèr á bls. $12_{16}$) stendr: »Norðr fra puli er italia land. þat kollum ver rumaborgar land.«

Auk þessa hefir Werlauff við haft þetta Hauksbókarbrot, þá er hann gaf út háskólaboðsrit sitt um landfrœðiskunnáttu Íslendinga á miðöldum (*Symbolae ad geographiam medii aevi*), Kmh. 1821; telr hann þar upp skinnbœkr, er hann hafi við haft, og þar í meðal »nokkur blöð sögulegs og landfrœðilegs efnis, rituð með ýmsum höndum, og sè þau í skinnbók í safni Árna Magnússonar, nr. 544. 4.[2] því næst kemr hann með nokkur orð úr 2. kapítula, og auk þess hefir hann látið prenta neðanmáls ýmsar greinir úr blöðum þessum, en stafsetningin er eigi hin sama

[1]) Bien convaincus de l' exactitude consciencieuse de la copie d' Arne, nous n' hésitons pas à la déclarer bien digne de remplacer l' original. [2]) *Folia quaedam argumenti historico-geographici, diversis manibus scripta, in Codice Membranaceo No. 544 in 4to extant.*

sem í Hauksbók. Werlauff talar að vísu svo um skinnblöð þessi, sem hann hafi haft þau sjálfr undir höndum eða, að minsta kosti, sem þau hafi þá (1821) verið í skinnbókinni ÁM. 544. 4; en þó virðist mèr óvíst, hvort hann hefir við haft skinnbókarblöðin sjálf eða eptirrit þeirra, og hvort þau hafa þá verið í Kaupmannahöfn eða á Íslandi. Sveinbjörn Egilsson hefir haft eptirrit af þeim, þá er hann var að semja orðabók sína á árunum 1824—1844; og vitnar hann til þeirra víða í henni, t. d. undir orðunum **agi, binda, bjarnígull, gilja, heiðr, hifinn, mynda, skratti, valda, virkr.** Eptir því sem segir í Þjóðólfi, XVI 71, fékk Dr. Hallgrímr Scheving þau í arf norðan frá Sauðanesi úr dánarbúi síra Stefáns Einarssonar (✝ 1847). Eptir dauða Schevings gáfu erfingjar hans skinnblöðin fornmenjasafninu í Reykjavík, og eru þau nú eign þess.

Það eru 14 blöð (28 blaðsíður), rituð með fallegri hendi; stafagjörðin sýnist vera íslenzk; blaðið er upp og niðr 9 þumlungar og tvær línur á lengd, og vantar eina línu í 6 þumlunga á breidd; kjalraufarnar eru sex; milli miðraufanna eru 2 þumlungar og rúmar 4 línur; en milli þeirra kjalraufa, sem eru þar fyrir ofan og neðan, eru tveir þuml. og sex línur; línurnar á blaðsíðu eru frá 30 til 34; fyrirsagnir fyrir kapítulunum eru með rauðu letri. Upphafsstafir kapítulanna eru flestir rauðir, en þó nokkurir grœnir. Fyrsta blaðsíðan er mjög ill aflestrar og sömuleiðis hin 27. og 28. Sumsstaðar á 1. og 27. blaðsíðu og fáeinum öðrum stöðum hefir verið dregið ofan í letrið með nýrra og svartara bleki, og hefir sumsstaðar auðsjáanlega aflagazt þar við, það er upphaflega var skrifað. Það sem ofan í er dregið, er hèr sett milli hornklofa, [ ]; en þau orð, er nú verða eigi lesin, og styðjast að eins við ágizkun og samburð við AR. og Rímbeglu, eru hèr sett milli sveiga, ( ). Orðin »ofrœ« og »frœ,« $3_{9,10}$, eru þannig sett eptir ágizkun (sbr. frœkorne ÓH. [1849] 101, $75_{10}$), því að þau verða nú með engu móti lesin; og má vera, að heldr ætti að rita þau »fræ« og »ofræ,« af því að ritað er frefast = frævast $37_{10}$, $38_{27}$.

Sum orð eru nær ávalt bundin á skinnblöðum þessum, og getr því leikið efi á, hvernig þau skuli rita. Orðið b i s k u p hefi eg ritað b i s k o p, en hefði heldr átt að rita það b y s k u p, því að svo virðist það ritað $41_{9}$. Eg hefði og heldr átt að rita k o n o n g r en k o n u n g r, því að k o n o n g u m er ritað fullum stöfum $34_{3}$. Orðið f i r i r er ritað fullum stöfum $20_{22}$, $22_{24}$, og $39_{29}$ (firirgefning). Orðmyndirnar þ e i r a, þ e i r a r, þ e i r i hefi eg ritað með einu erri. Þær eru ritaðar fullum stöfum á þessum

þa var sol .vij. lutum biartare en nu er hon. oc tungl var fyst sua liost sem nu er sol til þess er adamr bra af þui sem guð bauð honum. en þat verðr eftir doma dag er þau skolu iam lios vera beði sol oc[3] tungl sem þau voro fyst. oc verðr þat at tungl þuerr ecki oc stendr fullt iafnan. Ver megom nu m*eð* orðe oc m*eð* verki oc m*eð* erfeði varo oc olmoso til þess gera at ver skilldu*m* með guði vera. oc m*eð* hans helgum monnu*m* j liose oc i fagnaðe er ver heðan foru*m* ef ver viliu*m* guðs vilia gera. Sua segia oss heilagar bœcr at engi maðr skal blota heiðnar vettir f*ir*ir þ*u*i at þat gerðu men*n* f*ir*ir noa floð. en af þ*u*i varð su hin micla floð[3*] at guð vildi f*ir*irfarast lata alt þat hit synduga folk af þ*ei*ra misgerningum er þeir gerðu i hordome oc flimsku oc i meineiðum. j mutu oc manndrape f*ir*ir vttan noa oc sono hans þria oc þ*ei*ra .iiij. konor. þanan reis fyst sa villudomr oc utru fra þei*m* monnu*m* hinum miclu[4] er forðum varo.

---

ritað fullum stöfum (ekki »þeirra«). — [3]) þetta orð vantar í skinnblöðin. [3*]) *Flóð* er hèr kvenkent orð; en venjulega er það hvorugkent. — [4]) þessi opna fallmynd *miclu*, en eigi *miklum*, er eigi vanaleg í fornum bókum; þó finst hún síðar í þessu broti. Eg hefi safnað dœmum til hinnar lokuðu myndar (á *-um*) í skólaskýrslu frá Reykjavíkrskóla, Rv. 1862, 57.—63. bls. — Eg hefi síðan fundið fjölda dœma til hinnar lokuðu myndar, en mjög fá til hinnar opnu. Eg set hèr að eins nokkur dœmi til hinnar lokuðu myndar á lægsta stigi (í *positivo)*, þar sem hin opna mynd er nú höfð: oc kasta i brott þema hinum *sæmelegom* klæðom, Barl. 13, $11_{4}$. Konongr bauð nu vpp at luka þeim hinum *gylltum* arkkum, 25, $21_{23}$. Eptir þetta let hann vpp luka þeim hinum *bræddom* arkkum, 25, $21_{29}$. Siðan skipar guðs sunr sinum sauðum oc hinum *blœzaðum* bornnum a hœgre hond feðr sinum, 37, $33_{12}$. frelsa mik af þeim villum hinum *myrkum*, 83, $81_{27}$. Af þessom hinum *goðom* oc *guðlegom* staðfestoorðom bauð kongrenn i sinni reiði at skera af tungur þeirra, 115, $108_{37}$. Oc i þessom hinum *harðum* kualum oc pinslum fylgðu þeir fram sinum herra Iesu Kristo, 115, $109_{10}$. Eða hui skilr þu þik eigi ifra þeim *margum* oc *falsom* oc *vandom* guðum, 121, $117_{12}$. oc segia þeir at af þeim hinum *samum* skapum varð siðan Uenus. er þeir kalla astar gyðiu, 138, $135_{12}$. En prestar oc byskopar þeir sem þessom *falsom* guðum þionaðu funnv gorlla at konongrenn lagðe minna hug a nv heldr en fyrrmeir at gera guðum fornner, 152, $149_{2}$. Hugr varr iðraðezt af hinum *fornnom* misgerðom, 180, $180_{34}$. oc skiptt alldrigi þinum *goðom* oc *milldum* hugrenninngum, 192, $192_{9}$. at virðulegr guð geve yðr allum saman himneska dyrð með sinum *hælgum* mannum, 192, $193_{21}$.

þeir toko til oc letu gera stopul or griote sua hafan at þ*ei*r vildu m*e*ð þui koma i himiriki. En þa sa drotten*n* var mikileti þ*ei*ra. oc kom þar sialfr er þeir varo er þa gerning skildu gera. oc uilti sua f*irir* þeim at engi uissi huat annar sagðe eða gerði. en þeir men*n* voro .ij. oc lxx. En af þ*u*i ero nu sua margar tungur i þessum heimi. En þeir men*n* aller er þar voro vrðu sua vsatt*er* at hu*er*r þ*ei*ra for [a sins vegar[5]. En su gerni*n*g fell oll niðr. þa foro þeir til ymisa landa. en man*n*kyni vox þa ofund oc varð suikit af hinum sama diofli er adam sueic fyrr. sua at þeir gerðu ser guð oc sao [eigi skynsemdar augum[6] a varn drotten*n* er þa skop. Sumir blotaðu sol. sumir mana. sumir stiornur. sumir æld. sumir vatn. sumir jorð. f*irir* þ*u*i blotaðu þeir hana at þar fœðist huatvetna við hana. f*irir* þ*u*i vatn. at alt mindi dœyia ef þat veri eigi. f*irir* þ*u*i æld at han*n* er varmr við at sitia. en af þ*u*i sol oc oll himintungl. at þaðan kemr lios alt j heim þenna. En þeir mattu þat eigi uita ef þeir vildi at þ*u*i hyggia at sa er ein*n* guð er þat alt skop monnum til hialpar. Enda fengu þeir en*n* meiri villudom oc blotaðu men*n* þa er rikir oc ram*er* varo j þessu*m* heimi siðan er þeir voro dauðir. oc hugðu þat at þeir mindu orka iam miclu dauðir sem þa er þeir voro kuikir. Maðr var sa ein*n* mioc rikr oc bio i œy nokorre. er het saturnus. [En han*n* het saturnus[7]. var illr maðr. han*n* drap sono sina alla hu*er*n sem boren*n* var oc gerði at mat ser oc at siðan. Ein*n* let han*n* lifa en sa het iupiter[8]. en han*n* var (9. bls.) illr oc grimr sua at han*n* rak foður sinn or œy þ*ei*ri er hann bio i. oc vildi honum at bana verða ef han*n* metti taka han*n*. En sa iupiter[9] var sua quensamr. oc daðalaus at han*n*[9*] hafðe systur sina at kono ser. en su het iuno. oc gat m*eð* hen*n*i dœtr .ij. onnor het min*er*ua en onnor ven*us*. þ*er* baðar dœtr sinar hafðe han*n* at kono ser. oc hu*er*ia sina fre*n*dkono hafðe han*n* at skom oc

Öll þessi dœmi eru tekin úr Barlaamssögu,en eg hefi til miklu fleiri dœmi, sem eg gæti talið, en það yrði of langt. — [5]) Ætti líklega heldr að vera »síns vegar«, því að forsetningin »á« er eigi sett með eignarfalli (*genitivo*). — [6]) Ritarinn hefir skilið eptir eyðu fyrir þessi orð; þeim hefir síðar verið við bœtt; en þau hafa eigi komizt fyrir í eyðuna, og er því sumt ritað fyrir ofan línuna. — [7]) þessum orðum er ofaukið. — [8]) Fyrst ritað *ioui*, en síðan leiðrétt (með annari hendi) og breytt til *iupiter*. — [9]) Fyrst ritað *iouis*, síðan dregið út, og ritað *iupiter* fyrir ofan. – [9*]) þessu orði er

cleke. þa hina meinfullu men*n* oc hina fulu hofðu þeir þa at bestum guðum ser. En sa var þ*ei*ra alra rikastr hin*n*a heiðnu man*n*a. er sumir men*n* kalla þor.[10] en sa var allr ein*n*, en han*n* blotaðo men*n* a danska tungu allra mest. En hans sonr het mars. han*n* vildi æ oc æ i illu standa oc i hernaðe oc i orostu. En þeir hinir heiðnu men*n* aller blotaðu han*n* dauðan aðr en þeir fœri til orostu. oc hugðu þeir at han*n* metti þei*m* þa hialpa. f*ir*ir þa soc at han*n* stoð i h*er*naðe i morðe oc i man*n*drape. En var ein*n* maðr sa er mercurius het. en han*n* var sua fars fullr oc suika at han*n* for at flerð einni at stela oc liuga. þan*n* gerðu þeir heiðinn man*n* at guði ser. oc blotaðu han*n* at br(auta)[11] mote oc[11*] hestum biorgum. en han*n* het oðenn a donsku.[12] kona ein var su er het vena. su var iofls dotter. En hon var sua man*n*giorn. oc sua org oc sua ill at hon la m*eð* feðr sinum. oc með morgu*m* mon*n*um oc hafðezt sua sem portkona. En f*ir*ir hen*n*i œrðust oc heiðnir men*n* oc kallaðu hana gyðiu oc sins guðs dottor. Mart var þess alsz er men*n* kallaðu guð vm allan*n* miðgarð. hin*n* illi diofull hafðe sua suicna þa hina heiðnu men*n*. at þeir toko illa kalla oc argar konor. oc blotaðu guð sin þa men*n* er þat eitt gerðu er fianda vili var. sua var man*n*kynit suikit til þess er var drotten*n* gaf þeim enga gaum.[13] A marga vega varo men*n*

---

við bœtt með annari hendi fyrir ofan línuna. — [10]) Forfeðr vorir, Norðmenn og Íslendingar, báru þá saman sín í milli Júppíter og Þór, og ætluðu það hefði verið einn og hinn sami guð, og mun það bera til þess, að þeir hafa þótzt finna ýmislegt líkt með þeim; báðir voru til dœmis þrumu og eldinga guðir; þannig er Júppíter kallaðr Krítar-Þór í Trójumanna sögu, 2. kap.; og í Barlaams sögu, 138. kap., segir: »Annar guð þeirra er Júpíter, er *Þór* er kallaðr«. — [11]) Það, sem hèr er í sveigum, er óljóst og hálfskafið út. Fyrir ofan línuna hefir og eitthvað verið ritað, sem einnig er út skafið og verðr eigi lesið. — [11*]) Hèr hefir »a« verið við bœtt með annari hendi milli »oc« og »hestum«. — [12]) *Mercurius* og Óðinn eru hèr gjörðir að hinum sama guði, og er það eigi furða, því að eptir þeim hugmyndum, er menn gerðu sèr um báða, er margt líkt með þeim. *Mercurius* var guð hugvits, lagkœnsku, bragða, íþrótta, málsnildar; Óðinn var guð málsnildar, skáldskapar, galdra og allskonar íþrótta (Sbr. Yngl. s., k. 6—7.). Sá *Mercurius*, sem Caesar (B. G. VI, 17) segir að Gallar dýrki, er líklega Óðinn. — [13]) Á þessum stað er orðið *gaum* kvenkent, og í Fritzners Orðabók er þetta orð að eins látið vera kvenkent, en þess alls eigi getið, að til sè karlkent

viltir sua at þeir gafo sol oc mana daga oc oðrum guðum sinu*m*. Sol gafo þeir sun*n*udag. mana[14] mana dag. En tysdag gafo þeir marti. hin*n* fiorða dag gafo þeir mercurio. þan*n* er ver[14*] kollum oðen*n*. En hin*n* .vi. dag gafo þeir hin*n*i orgu venu. er heitir frigg a donsko. hin*n* .vij. dag gafo þeir saturno er var hin*n* ellsti faðer þ*ei*ra allra guða.[15] þa gerðu þeir hinir heiðnu men*n* manlikan or rauðu gulli. oc or huitu silfri. suma gerðo þeir or steinu*m*. suma or stocku*m*. gerði huerr or þ*u*i er efni hafðe til. oc gerðu þeim hus oc kallaðu þat hof þ*ei*ra. oc settu þau manlikan þar inni. oc baðo ser goðs til. þar sao þeir dioflā er þa hafðe aðr suicna. oc hini[16] fogru manlikan oc flugu þar j þeim. oc meltu þaðan við þa hina ormu men*n*, oc villu men*n* oc lerðu þa til þess er þeir komu salum þeira[17] oc sialfum þeim j heluiti. Sumir gerðu manlikan m*eð* miclum (**10. bls.**) hannerðum. oc seldu m*eð* verði. suma við minna en suma við meira. sua hu*er*n sem koma matte. Meðan þeir gerðu þa þotte þeim gaman eitt at. En þa er gort hofðu oc þeir guð kallaðu þa stoð þeim age af oc voro aller reddir við þa. Ver hofum lesit a boc þ*ei*ri er heitir [liber regu*m*[17*] at þeir hinir heiðnu men*n* af lande þui er heitir philistim[18] borðust oft við

---

orð *gaumr*, sem þó finst mjög víða, og ætla eg að setja hèr nokkur dœmi þess: Steinarr gaf at því engan gaum, Eg. 84, 211. Gaf hann engan gaum at henni, Sturl. 5, 7: II 116. Nu er at huaruge gavmr gefinn, Grágás, (útg. Vilh. Finsens), 117. k.: I 216₁₁. Var at því engi gaumr gefinn, ÓH. (Christiania 1853) 67, 71₂₄; Fms. IV 168₈; Heimskringla, ÓH. 83. Gefum engan gaum at slíku, Vígaglúmss. 13: Ísl. II, 356. Ok því munum vèr at þessu gefa öngan gaum, Maguss. 5, 12. Ok gefum vèr engan gaum at ónýtum orðum, 12, 30. En all-lítinn gaum hefir hann at oss gefit hingat til, 21, 55. Lítill gaumr var gefinn at fáum mönnum, Fms. XI, 277₂₀. — 14) þessi orð eru rituð fyrir ofan línuna. — 15) Rómverjar tóku að telja dagana eptir vikum á keisara-tímunum, og höfðu þessi nöfn á vikudögunum 1) *dies solis*, sólardagr, sunnudagr. 2) *dies lunae*, mánudagr. 3) *dies Martis*, Martsdagr, Týsdagr. 4) *dies Mercurii*, Merkúrsdagr, Óðinsdagr. 5) *dies Jovis*, Júppítersdagr, Þórsdagr. 6) *dies Veneris*, Venusdagr, Freyjudagr, frjádagr. 7) *dies Saturni*, Satúrnsdagr (þváttdagr, laugardagr). Varla getr efi á því verið, að vikudaganöfnin hjá forfeðrum vorum, að hinum síðasta vikudegi undanteknum, eru ekki annað en þýðing á hinum rómversku vikudaganöfnum, — 16) þannig. — 17) þessi orðmynd er hèr rituð fullum stöfum. — 17*) Þ. e. Konungabók. — 18) Tveim síðustu stöfunum (*im*) í þessu orði hefir síðar

iraels[19] folk. en þeir einir menn hofðu þa retta tru til vars drottens sua sem abraham hafðe firir þeim aðr. En þa varð þat eitt[19*]huert sinn firir syndum þeira hinna cristnu manna at þeir hinir heiðnu menn hofðu gagn. oc fengu af þeim orc þa er mikill heilagr domr la j. þar la j vondr sa er moysess hafðe er var drottenn sialfr seldi j hond honum. en þeim vendi laust moyses a hafet rauða þa er farao konungr for eftir þeim með sinn her oc vildi drepa þa alla. En þa stoð hafet tueim megim sem steinveggr. En moyses geck yfir haf þurrum fotum. En farao oc lið hans for eftir þeim þa hina somo leið. þa laucst hafet saman en þeir druknaðu þa aller. þar la oc i orc þeiri steinspiold þau er var drottenn feck sialfr j hendr moysi oc hann hafðe skrifat a log oll með bocstofum. er menn skilldu þa hafa oc nu i þessum heimi. þar la oc i manna en þat var fœsla su er var drottenn sendi or hifnum moysi. oc hans liði. er hann sendi þa .xl. vetra j œyðimorc. þa fœrðu þeir hinir heiðnu menn þa orc með þeim miclum helgum dome. er or hifnum kom. til sins hofs. oc settu upp hia sinu guði. en þat kallaðu þeir dagon. en yfir honum letu þeir heiðnir menn mioc dyrlega. þat var einn morgen arla er þeir komo inn i hof sitt. þa fundu þeir guð sitt a golfe liggia firir orkenni niðri sem hann beði friðar. þa toko þeir enn dagon oc settu vpp j sama stað sem hann stoð aðr hia hinum helga dome. þa como þeir at oðrum morne at vita huessu þa fœri. þa funnu þeir dagon guð sitt i durum vti hofuðlausan. oc hendr af baðar. firir þui for þat sua at eigi matte alt vera saman drottens vars sendingar oc diofuls manlikan.[20] þa varp guð reiði sinni a þa þioð oc sendi til þeira manndauða oc varan firir þer saker at þeir hofðu þar hit (11. bls.) helga skrin j sinu heiðna hofe. Mys[20*] oc maðkar a lande þui ato korn alt firir monnum oc firir foro landenu ollu. þa fœrðu þeir lands lyðren þat hit helga skrin til annarar borgar fra annare. þa var þar manndauði hinn mesti sem þat hit helga skrin kom. þa spurðu þeir at spaca menn huar[21] fleirum þotte rað at fara með þui skrini heim. eða hafa með ser lengr. þa gerðu þeir þat rað aller at heim skildi senda.

verið við aukið með öðru bléki. — [19]) Þannig. — [19*]) Hálfskafið út. — [20]) Sjá fyrri Samúelsbók, 5.—6. kap. — [20*]) Hèr hefir verið ritað með annari hendi eitthvað fyrir ofan línuna og sömuleiðis nokkur orð utanmáls, og verðr nú hvorugt lesið. — [21]) Þannig; ætti að vera:

þa meltu þat hinir spakastu men*n*. lotu*m* fylgia m*eð* þ*ui* hinu helga skrini fagrar gersimar. þeir toko þa til oc gerðu ringa or gulli oc messing. þat reðo þeir oc at gera skildi vagn oc beita f*irir* kyr .ij. þer er alldrigi kuemi aðr undir oc sua vngar kyr. þer er hin*n* fysta kalf hofðu boret. oc baðu taca þa kalfa oc setia in*n*. oc vita hu*er*t þer kyr vildi ganga. oc melti[22] sua ef þer kýr uildi brott ganga fra kalfum sinu*m* eða leið hina somo m*eð* þ*ui* hinu sama helga skrini sem heilagr domr var inni. þa vitu*m* ver fullgiorlla at þat eitt olde vgagne þui er ver fengum. þa gengu þ*er* kyr m*eð* þei*m* vagne til iraels[23] landz. oc beliaðu harðla at kalfum sinu*m*. oc hurfu eigi aftr at heldr aðr en þ*er* komo heim m*eð* þei*m* helga domæ sem han*n* hafðe áðr verit. þeir hinir heiðnu men*n* fengu þa ar oc frið oc batnaðe þa oc let af man*n*dauða oc varane. En þeir irraels[24] þioð hurfu einart til guðs. En drotten*n* var barg þeim val siðan sua at þeir hofðu betr huar sem þ*ei*r komo saman m*eð* samuels liði er þ*ei*ra var b*isko*p oc hofuðsmaðr. af sliku megum ver vita hu*er*t megin þau hini heiðnu guð hofðu við varn drotten er alsz er valldande. þat varo eigi guð. þat varo gri*m*mir dioflar oc salo suicarar. oc upphaf allra synda. oc þeir fœra sina embettis men*n* i eld þan*n* er alldrigi slocnar. oc er þat fullkunnict huat sa hin*n* riki k*onu*ngr gerði.[24] er het nabogudonosor. han*n* toc drengi .iij. þa er truðu a ein*n* guð oc gerðu eigi honu*m* luta. oc let casta þeim j ofn brennanda. En guð getti þ*ei*ra sua at þeir gengu þar i obrunnir sua at eigi suiðnaðe eitt hař a hofðe þeim.

6. [25]A þui lande hinu sama var sa propheti er het daniel guðs vinr (**12. bls.**) oc hans hin*n* besti þegn. oc heilagr maðr sua at han*n* melti við varn drotten*n* þegar er han*n* villdi. En han*n* daniel var m*eð* k*onu*ngi þei*m* er het dari.[26] oc þotti honum allgoðr. þa gerðu hans raðgiafar þat f*irir* ofund er þeir hofðu við daniel at k*onu*ngr skilldi sua bioða at engi maðr skildi guði luta nema ser goðs biðia til guðs .iij.[27] daga. En þui vildu þeir daniel suickia. en daniel gerði sem han*n* var vanr. geck i loft sitt oc bað ser þar til almattegs guðs. en þeir stiltu um

---

*hvárt.* — [22]) þannig; ætti að vera: *mæltu*. — [23]) þannig ritað upphaflega; síðar hefir *s* verið sett fyrir ofan línuna með svartara bleki. — [24]) þetta orð vantar í skinnb. — [25]) Sjá Daniel, 6. kap. — [26]) = Darius. — [27]) Í Daniel, 7, 8, stendr: 30 daga.

huset er i ofund gengu við han*n* oc sogðu k*onu*ngi at daniel gaf eigi gau*m* hans boðorðe. oc letu han*n* þess verðan at honu*m* veri kastat i grof þa er dyrin oorgu lago i .vij. en k*onu*ngren varðe þat mal oc quast þat eigi vilia. en þeir vurðu þo ricari er fleri[28] voro saman. þa toko þeir daniel oc kastaðu honu*m* i grof *firir* dyrin vorgu. En k*onu*ngr geck at sialfr oc byrgði aftr þa grof. oc melti sua við daniel. nu hialpe þer þin*n* guð ef han*n* er sua goðr sem þu segir at han*n* se. oc geck a brott i illu*m* hug oc matte huarke eta ne drecka ne sofa a þ*ei*ri natt. þa geck k*onu*ngr þegar at morne at vita huat or daniel veri orðet. oc kallaðe a han*n* oc melti sua. lifir þu guðs maðr eða matte þin*n* guð þer hialpa við þessum dyrum hinum olmu.[29] En daniel suaraðe. lifir þu k*onu*ngr. lifi ec harðla vel *firir* þui at min*n* guð sendi sinn engil til min. En bant[30] þessi dyr sua at þau matto eigi munni gina. eða mer at angre verða. *firir* þ*ui* at ec hafða ecki misgort við þic. En k*onu*ngren fagnaðe þui harðla oc bauð sinu*m* mo*n*num at drega[31] daniel upp or grof þ*ei*ri. En hinum i at casta er han*n* hofðu rœgðan. m*eð* konu*m* oc bornum. En þeim var ollum kastat i hina somu grof en dyrin toko við þeim þegar a lofte oc rifu i sundr þau oll. þa sendi sa k*onu*ngr boð þegar sinum lands lyð ollum. oc bað þeim segia sinn vilia at þeir skildu trua allir a ein guð sannan firir[31*] þui at ver vitum þat at han*n* er guð almattegr er slikar iartegnir gerði. at han*n* helt daniel við þui. at eigi biti han*n* þau hini olmo dyr. daniel var siðan lengi m*eð* þei*m* k*onu*ngi oc þotti honum allgoðr. þa varð sa k*onu*ngr dauðr en annar feck k*onu*ngdom þan*n*. En sa hit Cir*us*. þa var daniel en motu nautur[32] hans. þa var en i babilon hinni miclu en heiðit guð eitt oc het bel en þat sogðu þeir menn aller er embettu bel at han*n* þurfti mat sua mikinn at engi kunni þess (**13. bls.**) dœmi. En k*onu*ngr var til þess

— [28]) þannig ritað fullum stöfum. — [29]) Samber 4. athugagrein á 14. bls. hèr fyrir framan. — [30]) þannig fullum stöfum; merkileg orðmynd; úr henni hefir orðið orðmyndin »*batt*« fyrir tillíking. — [31]) þannig. þessi orðmynd finst víða í norrœnum (norskum) handritum, t. d. ÓH. (Christiania 1849) 16, 13₆: Siðan let hann drega segl i hun upp. Barl. 62, 60₁: fee oc auðœue oc ast sv er maðr legr þar a saman at drega. 65, 64₂₄: skal ec með guðs kraptte sætt ykra samandrega. — [31*]) þannig fullum stöfum. — [32]) þannig ritað með fullum stöfum. —

skylldr at fœra honum huern dag tolf sefsteri[33] vins oc sald miols oc .xl. sauða. þat skildi bera lata alt *firir* bel oc k*onu*ngr geck þangat hu*er*n dag at biðia ser goðs til bels. en daniel sa enskis heiðar a bel. oc bað ser til eins guðs. þa spurði k*onu*ngren daniel. hui vilt þu eigi biðia þer goðs til bels. en daniel suaraðe. ec bið mer aldrigi til þess guðs er þer hafet gort yðr *firir* þu*i* at ec bið mer til þess guðs er lifir oc e man lifa. huat man ec biðia mer til bels dauðs. k*onu*ngr suaraðe. eigi þickir þer sua daniel sem bel se lifande guð meðan han*n* melir við oss. oc matar nœytir quað k*onu*ngr. nei quað daniel. han*n* at alldrigi matar bita. þa varð k*onu*ngr reiðr harðla oc lastaðe sogu daniels. oc bauð embettiss monnum[24] bels ollu*m* at koma til mals við sic. oc spurði at huat or þeim mat yrði ollu*m* er boren*n* er *firir* bel. Ef þ*er* segit mer þat satt at han*n* etr þat alt þa skal drepa daniel. er hafðe bel at haðungu. þa melti daniel. stande þat þitt orð k*onu*ngr oc rœynu*m* vit huat satt er. En þeir gengu þa aller til hofs þess er bel var inni. En þa toc k*onu*ngr sialfr mat oc vin oc setti *firir* bel. oc rac vt þa embettis men*n* alla. þa toc daniel osku oc saðe vm alt golf. En k*onu*ngr lauc aftr sialfr duru*m* oc geck vm morgonen at rœyna sogu daniels. se þu nu daniel. quað k*onu*ngr. nu er matren*n* allr ettin*n* er ec setta *firir* bel. se her k*onu*ngr. quað daniel. spor manna. er ec hygg at etit hafe mat bels. þa geck k*onu*ngr til oc sa þa beði þar vaxenna man*n*a spor oc barna. þa nœyddi k*onu*ngr þa til embettis men*n* bels alla at segia honu*m* san*n*a sogu til huat yrði or mat bels. En þeir mattu eigi þess lengr dylia. oc sogðu hit sannasta at þeir hofðu sialfer etit. en han*n* toc þa alla oc let drepa en han*n* bað daniel gera or bel guði þ*ei*ra slict sem han*n* vildi. þa toc daniel bel oc braut allan*n* i sundr oc kastaðe i eld. þa var en*n* j borg þ*ei*ra dreki ein*n* sa er þeir hofðu *firir* guð. þa melti k*onu*ngr við daniel. mant þu þess dylia at þessi se lifande guð er ver blotum nu þo at þu letir[35] eigi bel vera sua. þa suaraðe daniel hogla k*onun*gi. ef þu lœyfir mer þa man ec drepa þan*n* dreka ef þer kallet a guð sua at ec hafa ecki vapn við. þa

[33]) þetta orð finst eigi annarsstaðar mèr vitanlega; það er að myndinni mjög líkt latínska orðinu *sextarius* (hálfr pottr, eða mörk); í sjötigi manna þýðingunni stendr: οἶνου μετρεῖται ἕξ. — [34]) Embættismenn eru hèr sama sem prestar (ἱερεῖς). — [35]) þetta orð er

lœyfði k*onung*r honu*m* sua at han*n* drepi þan*n* orm oc hafðe[36] ecki vapn við han*n*. þa geck daniel oc gerði honu*m* mat. han*n* toc [bic oc bustir oc istr[37] oc veldi alt saman oc gaf honu*m* at eta. þa bolgnaðe han*n* allr oc brast i sundr. En daniel melti við hans embettis men*n*. nu megut þ*er* sea a hu*er*n þ*er* truðut. þeir urðu reddir borgar men*n* aler og letust[37*] bol hafa fengit af daniel. oc gengu aller til k*onu*ngs oc buðu honu*m* koste tua at han*n* seldi þeim i hendr daniel[38]..............................
**(14. bls.)** han*n* oc kastaðu honum j hina somo dyra grof. er han*n* var aðr. *firir* dyrin oorgu. oc voro lion suelt aðr .vi. daga til. hu*er*n dag skildu þau dyr lionen hafa tua laupa brauðs oc tiu sauði til fœslu. en tolf dœgr var þeim ecki gefit til þess at þau skilldu daniel eta oc honu*m* grimlega bana. Sa maðr uar ein*n* j iherusalem er abbacuc het. oc var *pro*pheta. En han*n* skildi fœra vercmonnu*m* sinu*m* fœslu þeim er skoro akr hans. þa kom engill guðus[39] til hans oc bauð honum at han*n* skildi fœra daniele fœslu. þa er han*n* hafðe þar.[40] til babilon.[41] oc til liona grafar þeirar[41*] er daniel la j. abbacuc suaraðe. hu*er*t skal ec þa fara h*er*ra min*n* quað han*n*. er ec sa eigi þa borg eða hœyrða oc eigi sogur til haft. þa greip enggillin i har honum. oc flaug m*eð* honu*m* oc m*eð* fœslu vercman*n*ana til grafar þ*ei*rar er daniel la j. þa kalaðe abbacuc a daniel. tac þu uið feslu þessare er guð sendi þer. En daniel toc þa við feginn oc at oc þackaðe guði oc melti sua. lof se þer guð almattegr er engan firir[41*] letr þan*n* er a þic truir. oc lœysir alla þina vini or nauðum. oc virðist at vitia min oc hialpa i sua mikilli nauð sem ec em nu staddr. En engillen*n* toc þa abbacuc *pro*ph*et*a oc fœrðæ heim aftr til lands sins. um mioc langan veg. þa a hinu*m* .vij. degi gecc k*onun*gr til grafar þeirar[41*] er daniel var i castat. i ryggu*m* hug oc vildi vita huat or honu*m* veri gort. oc sa i grofena. en

---

tvíritað í skinnbl. — 36) Ætti að vera: hefði. — 37) πίσσαν καὶ στέαρ καὶ τρίχας. 37*) Hèr hefir ritarinn látið eptir eyðu fyrir eitt orð. — 38) Hèr er autt bil svo sem fyrir 2 orð á skinnblöðunum; og hefir síðar verið ritað neðanmáls með annari hendi eitthvað, er hefir átt að fylla eyðuna, en það verður nú eigi lesið. — 39) þannig ritað fullum stöfum. — 40) þetta orð er út strykað, og í þess stað sett utanmáls með öðru bleki: »ætlat v*er*kmonnum sinum«. — 41) Hèr er ritað »borgar« fyrir ofan línuna með daufara bleki. — 41*) þannig ritað fullum stöfum. —

daniel sat þa heill j grofenni milli dyranna. þa melti k*onun*gr. oc quað þat hit fysta orð. Ein*n* er guð almattegr sa er daniel truir a. mikill erttu oc goðr oc rikr oc ra*m*r er þu orkar þ*ui* er þu vilt. en han*n* varð harðla fegin oc bauð[42] mo*n*num sinu*m* at draga daniel upp or þ*ei*ri liona grof. oc let þei*m* casta i er danielem hofðu rœgðan. en þeir vurðu aller þegar slitnir i sundr fyrr en k*onun*gr gengi fra þeim. Margt kunnum ver oc aðrer froðer klerkar segia fra lausungar guðum. En nu er þat lanct oc leiðent **(15. bls.)** at[43] huessu illfus þau voro. oc huessu þau drogo fram sina embettis men*n* til huersuetna er ilt var. oc vmenska var j. til morðs oc til man*n*draps. til hordoms oc til alskonar saurlifis. þeir men*n* voro þeim guðum virkaster er mestar vdaðer gerðu. oc ferligast lifðu oc mest letu eftir likams fystu*m* oc heimsens hœgoma. En var drotten*n* [iesus christus[44] kom til þessa heims a hi*n*ni .vj. olld þeirri[45] sem verðr. En .v. voro aðr gengnar. ein var adams old. onnor noa old. iij. var abrahams old. [*oc* moyses. iiij. dauiðar[46] old[47] en vm þessar allder matte engi maðr koma til himirikis er nu ero taldar til þess er hin*n* helgi cristr let hingat berast af hinni helgu mariu oc lœysti alt man*n*kyn fra heluitis pinslum þa er han*n* toc pinsl oc dauða a hinu*m* helga crosse.

### FRA ÞUI HUAR HUE*R*R NOA SONA BYGÐI HEIMIN*N*.

7. Synir noa voro .iij. þeir skiftu ollum heimi m*eð* ser huar kyn hu*ers* þ*ei*ra skilldi byggia. Sem hafðe þan*n* lut heimsens er asia heitir. þat er kallat helmingr heimsens. En jafeth sonr noa skilldi byggia norðrhalfo heimsens. þat er kallat europa. En kam hinn þriði noa sonr. han*n* skildi byggia þat land er africa heitir. þat er um vtsuðus[48] ett heimsens. Sem[49] noa sonr atte

---

42) Á skinnblöðunum er ritað: »baauð.« — 43) Hèr virðist vanta eitthvert orð, t. d.: »segja.« — 44) Ritað »ihc xps.« — 45) Þannig ritað fullum stöfum. — 46) Ritarinn hefir látið hèr eptir autt rúm, og hefir síðar verið í það ritað með annari hendi og bleki. — 47) Eitthvað hefir verið ritað utanmáls, sem hefir átt hèr inn; en það verður nú eigi lesið. — 48) Þannig. — 49) *Is. Or.* IX, 2, 3: *Filii Sem quinque singulariter gentes singulas procreaverunt. Quorum Elam primus, a quo Elamitae principes Persidis; secundus Assur, a quo Assyriorum pullulavit imperium; tertius Arfaxat, a quo gens Chaldaeorum exorta est; quartus Ludi, a quo Lydii; quintus Aram, a quo Syri, quorum metro-*

.v. sono oc bygðu þeir vm austrhalfo heimsens. Ein*n* þ*ei*ra het elam. annar assur. iij. arfaxað. iiij. Nudi.[50] v. Aram. þessi ero þioðlond i þeim lut heimsens. Jndia land. oc perfidia[51] land.[52] Elam. assiria la*n*d bygði assur. Meidia[53] land arfaxað. kalldea land nudi. En aram syrland. bact*ri*a land. albania land. kuna[54] la*n*d. Suiþioð hina miclu. En alsz ero told þioðlond j þeim lut heimsens .cccc. oc .vi. En þa er tungur skiftust þa ko*m* i þan*n* lut .vij. oc .xx. Jafeth[55] noa sonr atte .vij. sono. þessi ero nofn þ*ei*ra. Gomer. Magon. Madia. Joban. Tubal. Mosok. Tiras. þessi ero þar þioðlond. Magon reð suiþioð hi*n*ni miclu sumri. en Madia kylfinga la*n*de.[56] þat kollu*m* ver garða riki. Joban girclande. Tiras bolgara lande oc vngara lande. saxlande oc fraclande. Tubal spania *lande* oc Rumu*er*ia lande suiþioð oc danmorc oc noregi. en Gomer reð gallia. en Mosok kapadocia. En alsz ero told þar þioðlond .l. oc .cc. en tungur .iij. oc .xx. **(16. bls.)** Cam noa sonr atte .iiij. sono. ein*n* het kus. annar Mesraim. þriði puth. fiorðe chanaan.[57] þessi ero þar þioðlond. kus reð ethiopu lande. Mesraim egifta lande. puth libia lande. kanaan rabita lande. Serclande. getula *lande*. Numida lande. Mauritania lande. þar er enn blaland. þar ero tungur .ij. oc .xx.

---

*polis Damascus fuit.* — [50]) Á að vera »Ludi.« — [51]) Á að vera »*Persidia.*« — [52]) Hèr vantar »bygði.« — [53]) = *Media.* — [54]) þannig = Kvennaland, Kvenland? — [55]) *Is. Or.* IX, 2, 26—31: *Filii igitur Iaphet septem nominantur: Gomer, ex quo Galatae, id est Galli. Magog, a quo arbitrantur Scythas et Gothos traxisse originem. Madai, a quo Medos existere putant. Iuvan, a quo Iones, qui et Graeci. Unde et mare Ionium. Tubal, a quo Iberi. qui et Hispani, licet quidam ex eo et Italos suspicentur. Mosoch, ex quo Cappadoces. Unde et urbs apud eos Mazacha dicitur. Tyras, a quo Thraces, quorum non satis immutatum vocabulum est, quasi Tiraces.* — [56]) *Kylfingar* eru nefndir í Egilssögu, 10. kap. þar er talað um, að þórólfr fór á Finnmörk og fór víða um hana, »en er hann sótti austr á fjallit, spurði hann, at Kylfingar váru austan komnir, ok fóru þar at Finnkaupum, en sumstaðar með ránum«. Af þessum stað má sjá, að *Kylfingar* eru rússnesk þjóð, og kemr það saman við það, sem hèr segir, að *Kylfingaland* se sama sem *Garðaríki.* — [57]) *Is. Or.* IX, 2, 10—12: *Filii Cham quatuor, ex quibus ortae sunt hae gentes: Chus, a quo progeniti sunt Aethiopes. Mesraim. a quo Aegyptii perhibentur exorti. Phut, a quo Libyi. Unde et Mauritaniae fluvius usque in praesens dicitur Phut, omnesque circa eum regiones Phutenses. Chanaan, a quo Afri et Phoenices et*

En þioðlond .vi. minna en .cccc. þa verða tungur alsz .ij. oc .lxx. en þioðlond. þushundrað.

HER SEGIR FRA MARGHATTAÐU*M* ÞIOÐUM.

8. Sva segia froðar bœkr at i heiminu*m* se sua marghattaðar þioðer beði at vexti oc at eðli. Risar ero kallaðar þioðer þer er stercastar ero. þeir ero sumir viðreignar sem aðrer men*n* en sumir ero man*n*skœðir. A blalande er þioð su er panfagi hetir.[58] þeir eta alt þat er tonn festir a. Trogodite[59] heita þeir er renna hu*er*iu dyre harðare. Aptropofagi[60] ero man*n*etor. Antiofagi[61] nyta ecki til matar vtlan fiska eina. Arðabaðite[62] ero biugir sem fenaðr ok eta ecki nema ratt se. oc eta beði men*n* oc dyr. Su þioð er þar er ala sem feitast foðr sinn oc moður þa er þau eldast. en siðan bioða þeir til sin vinu*m* sinu*m* oc frendum. skal þa drepa þau oc eta þau at erfi sinu. oc þickia þeir illa gera er þau lata biða elli oc vhœgendi oc dœyia þau mogr.[62β] Einfœtingar[63] hafa sua mikin*n* fot við iorð at þeir skykgia ser i

---

*Chananaeorum decem gentes.* — [58]) Þetta orð má og lesa *„hettr."* *Is. Or. IX, 2, 130: Pamphagi, et hi in Aethiopia sunt, quibus esca est, quicquid mandi potest et omnia fortuitu gignentia, unde et appellati. Plin. H. N. VI, 35: Pamphagi, omnia mandentes.* — [59]) Þannig ritað. Rètt: *Troglodytae* (Τρωγλοδύται), hellisbúar. *Is. Or. IX, 2, 129: Trogoditae gens Aethiopum, ideo nuncupati, quod tanta celeleritate pollent, ut feras cursu pedum assequantur. Pomp. Mela, I, 8: Troglodytae, nullarum opum domini, strident magis quam loquuntur, specus subeunt aluntur que serpentibus.* Plin. H. N. VII, 2: *Troglodytas super Aethiopiam, velociores esse equis. Pergamenus Crates (refert).* V, 8: *Troglodytae specus excavant. Hae illis domus, victus serpentium carnes, stridorque, non vox; adeo sermonis commercio carent.* — [60]) Þannig; á að vera Anthropophagi (ἀνθρωποφάγοι), þ. e. mannætur. *Is. Or. IX, 2, 132: Anthropophagi gens asperrima sub regione Serum sita, qui quia humanis carnibus vescuntur, ideo anthropophagi nominantur.* — [61]) Þannig ritað; en á að vera *Ichthyophagi* (ἰχθυοφάγοι), þ. e. fiskætur. *Is. Or. IX, 2, 131: Ichthyophagi, quod venando in mari valeant et piscibus alantur tantum.* — [62]) *Is. Or. XI, 3, 20: Artabatytae in Aethiopia proni ut pecora ambulare dicuntur. Plin. H. N. VI, 35: Artabatitae quadrupedum ferarum modo vagi.* — [62β]) *Pomponius Mela, III, 7: Quidam proximi parentes, priusquam annis aut aegritudine in maciem eant, velut hostias caedunt; caesorumque visceribus epulari fas et maxime pium est.* — [63]) *Is. Or. XI, 3, 23: Sciopodum gens fertur in Aethiopia singulis cruribus et celeritate mirabili, quos Graeci inde σκιόποδας* (ætti

suefni við solo. þeir ero sua skioter sem dyr oc laupa við stong. Su þioð er j afrika er eigi sakar orma eitur[64] og born i voggu leika m*eð* eitrormum. þeir ero en*n* þar er hofuðlausir ero en a bringunni er beði munnr oc augu. sumir hofuðlausir. þa er munnren ofan a bukenum. en augu a herðar bloðum. oc er har a sem a dyru*m*.[65] Satiri heita þeir men*n* a india lande er sua ero biugleitir at crocar ero a nefium þeim. oc vex.horn i enni oc ero fœtr þ*ei*ra vaxner likast geita fotum.[66] þeir ero en*n* þar er a bac aftr horfa ter. oc ero .viij. a huaru*m* fœti.[67] Cenocefali[68]

---

að vera σκιάποδας) *vocant, eo quod per aestum in terra resupini iacentes, pedum suorum magnitudine adumbrentur. Plin. H. N. VII, 2: Ctesias scribit····hominum genus, qui Monocoli vocarentur, singulis cruribus, mirae pernicitatis ad saltum, eosdemque Sciapodas vocari, quod in maiori aestu humi iacentes resupini, umbra se pedum protegant. Gellius, IX, 4, 9: atque item esse alia apud ultimas orientis terras miracula, homines, qui monocoli appellantur, singulis cruribus saltuatim currentes, vivacissimae pernicitatis.* — 64) þannig ritað fullum stöfum. *Plin. H. N. VII, 2: Crates Pergamenus in Hellesponto circa Parium genus hominum fuisse tradit, quos Ophiogenes vocat, serpentium ictus contactu levare solitos, et manu imposita venena extrahere corpori. Varro etiamnum esse paucos ibi, quorum salivae contra ictus serpentium medeantur. Similis et in Africa gens Psylloram fuit, ut Agatharchides scribit, a Psyllo rege dicta, cuius sepulcrum in parte Syrtium maiorum est. Horum corpori ingenitum fuit virus exitiale serpentibus, et cuius odore sopirent eas. Mos vero liberos genitos protinus obiiciendi saevissimis earum, eoque genere pudicitiam coniugum experiendi, non profugientibus adulterino sanguine natos serpentibus.* — 65) *Is. Or. XI, 3, 17: Blemmyas in Libya credunt truncos sine capite nasci, et os et oculos habere in pectore. Alios sine cervicibus gigni, oculos habentes in humeris. Gell. IX, 4, 9: quosdam etiam esse nullis cervicibus, oculos in humeris habentes. Plin. H. N. VII, 2: quosdam sine cervice oculos in humeris habentes.* — 66) *Is. Or. XI, 3, 21: Satyri homines sunt aduncis naribus, in frontibus cornua habentes, et caprarum pedibus similes.* — 67) *Is. Or. XI, 3, 24: Antipodes in Libya plantas versas habent post crura et octonos digitos in plantis. Plin H. N. VII, 2: In monte, cui nomen est Nulo, homines esse aversis plantis, octonos digitos in singulis habentes, auctor est Megasthenes.* — 68) þannig rangt ritað fyrir *Cynocephali* (κυνοκέφαλοι), þ. e. hundhöfðar. *Is. Or. XI, 3, 15: Cynocephali appellantur, eo quod canina capita habeant, quosque ipsi latratus magis bestias quam homines confitentur. Hi in India nascuntur. Plin. H. N. VII, 2: In*

**hafa hunds hofuð. oc hafa þeir gauð[69] *firir* mal. klœr ero a fingrum oc a taom en engir negll.[70] (17. bls.) Cikoplex[71] heita men*n* er auga er eitt i hofðe. en þat er i miðiu enni. þar ero sumir tolf alna langer. þeir heita akrobi.[72] sumir ero alnar hafer[73] þeir heita pigmei.[74] þar ero konor þer er born ala .v. vetra gamlar oc lifir engi vm atta vetr.[75] Ermofrodite[76] heita men*n***

---

*multis autem montibus genus hominum capitibus caninis ferarum pellibus velari, pro voce latratum edere, unguibus armatum venatu et aucupio vesci.* — [69]) = gelt (*latratus*); orðið *gauð* sýnist vera kvenkent; en kynið sèst eigi á þeim stöðum, er eg hefi fundið þetta orð á. — [70]) þessi staðr sýnir berlega, að orðið *nagl* er karlkent í fornmálinu. Margir aðrir staðir sýna það og, t. d.: blóð stokkr undan hverium nagli, Diðriks saga, 17, $22_{21}$. sva fast kreistir hann hondina. at bloð stocc vndan hveriom nagli, 119, $134_{18}$. blóð stökk undan hverjum nagli, Fas. I $285_{22}$ (Ragnars saga loðbrókar, 16. kap.). Spratt honum blóð undan hverjum nagli, Fas. III. $509_{26}$ (Hjálmters ok Ölvers saga, 21. kap.). Í Njáls sögu, 35, $52_{5}$, stendr: »þú hefir *kartnogl* á hverivm fíngri«, en eptir því sem segir í orðabók Fritzners, er það rangt, og mun þá standa *kartnagl*, karlkent orð, í skinnbókunum, og þá orðmynd hefir Fritzner. — [71]) þetta orð er rangt; á að vera *Cyclopes*. *Is. Or. XI, 3, 16: Cyclopes quoque eadem India gignit, et dictos cyclopes, eo quod unum habere oculum in fronte media perhibentur. Hi et* ἀγριοφαγῖται *dicuntur, propter quod solas ferarum carnes edunt.* — [72]) þetta orð er eflaust skakt; og sömuleiðis það, sem hèr er sagt um hæð þessara manna. *Is. Or. XI, 3, 26: In India gentem ferunt esse, quae* μακρόβιοι *nuncupantur octo pedum staturam habentes.* — [73]) Ritað »hafaer« i skinnb. — [74]) *Is. Or. XI, 3, 26: Est et gens ibi statura cubitalis, quos Graeci a cubito pygmaeos vocant.···· Hi montana Indiae tenent, quibus est vicinus oceanus.* — [75]) *Is. Or. XI, 3, 27: Perhibent et in eadem India esse gentem feminarum, quae quinquennes concipiunt et octavum vitae annum non excedunt.* — [76]) Á að vera *Ermafrodite* eða *Hermafrodite* (ἑρμαφροδῖται eða ἑρμαφρόδιτοι). *Is. Or. XI, 3, 11: Alia commixtione generis, ut* ἀνδρόγυνοι *et* ἑρμαφροδῖται *vocantur. Hermaphroditae autem nuncupati, eo quod eis uterque sexus appareat.* Ἑρμῆς *quippe apud Graecos Mercurius est:* Ἀφροδίτη *Venus nuncupatur. Hi dexteram mamillam virilem, sinistram muliebrem habentes vicissim coeundo et gignunt et pariunt. Plin. H. N. VII, 3: Gignuntur et utriusque sexus, quos Hermaphroditos vocamus, olim Androgynos vocatos, et in prodigiis habitos, nunc vero in deliciis. VII, 2: Supra Nasamones confinesque illis Machlyas, Androgynos esse utriusque naturae, inter se vicibus coeuntes, Calliphanes tradit. Aristophanes adiicit dextram mammam iis virilem, lae-*

er geirvortu hafa hina hœgri sem kallar en hina vinstri sem konor. þeir mega vera beði feðr oc mœðr barna sinna. þat er[77] en*n* þar kueNa eðli sumra at eitt megu barn ala alz a efi sinni. en þat barn er huitt *fírir* herum nyalet en sortnar þa er aldr fer yfir. þeir men*n* lifa .cc. vetra oc rymiast ecki nema eldast.[78] Hia fosse þeim er gengr af paradisar bergi er þioð su er eigi hef*er* mun*n*. en þeir lifa við ilm þan*n* er verðr af eplum oc grase. þar ero viðir þeir er vttan vex a sem vll se oc hafa þeir þat eitt kleða er þaðan er gort af. En þeir dœyia þegar er þeir mego eigi ilma af grasenu oc aldenenu.[79] þeir ero en*n* þar er loðner ero aller sem dyr oc hafa engi fot. oc ero .ix. feta hafer.[80] En sum*er* men*n* ero eigi skemru*m* i votnu*m* en a lande oc hafa enga fœslu nema raa fiska oc vatnsdryck.[81] Albani þeir ero huitir sem snior beði a hars lit oc a horund þegar er þeir ero alner. þeir hafa augu gul i hofðe oc sia betr vm netr en vm daga.[82] Heitir en*n* quen*n*land.[83] þar ero oft orostr miclar oc

---

*vam muliebrem esse.* — [77]) þetta orð vantar í skinnb. — [78]) Hjá Plinius finst eitthvað líkt því, er hèr segir, en þó eigi alveg hið sama. Plin. H. N. VII, 2: *Ctesias gentem ex his, quae appelletur Pandore, in convallibus sitam, annos ducenos vivere, in iuventa candido capillo, qui in senectute nigrescat. Contra alios quadragenos non excedere annos, iunctos Macrobiis, quorum feminae semel pariant.* Á öðrum stað í sama kapítula: *et in quadam gente Indiae feminas semel in vita parere, genitosque confestim canescere.* — [79]) *Plin. H. N. VII, 2: Ad extremos fines Indiae ab oriente circa fontem Gangis Astomorum gentem sine ore, corpore toto hirtam, vestiri frondium lanugine, halitu tantum viventem et odore, quem naribus trahant. Nullum illis cibum, nullumque potum; tantum radicum florumque varios odores et silvestrium malorum, quae secum portant longiore itinere, ne desit olfactus; graviore paulo odore haud difficulter exanimari.* — [80]) *Plin. H. N. VII, 2: et alibi cauda villosa homines nasci pernicitatis eximiae.* — [81]) *Plin. ibid.: Oritas ab Indis Arbis fluvius disterminat. Hi nullum alium cibum novere, quam piscium, quos unguibus dissectos sole torreant.* — [82]) *Is. Or. IX, 2, 65: In parte Asiaticae Scythiae gentes, quae posteros se Iasonis credunt, albo crine nascuntur ab assiduis nivibus, et ipsius capilli color genti nomen dedit. Inde dicuntur Albani. Horum glauca oculis, id est picta, inest pupilla, adeo ut nocte plus quam die cernant. Plin. H. N. VII, 2: in Albania gigni quosdam, glauca oculorum acie, a pueritia statim canos, qui noctu plus quam interdiu cernant.* — [83]) þ. e. land Amazóna. *Is. Or. IX, 2, 65: Albani autem vicini Amazonum fuerunt.* þar að auk

eiga þær sialfar iafnan bardaga sin a milli vm riki sitt slict sem kallar annars staðar. oc ero þer konur ecki ostyrkare ne hugminne en kallar. Eru þar þeir menn er neflausir ero oc er [slett anlit[84] nema munnur[85] oc augu. Sumir hafa vor hina neðri sua mikla at þer kasta henni aftr yfir hofuð ser við solo oc skur meðan þeir sofa.[86] Sumir ero munnvana oc drecka or pipu.[87] Sumir ero tungulausir oc merkia alt at bendingum.[88] Ciromandari[89] er vttan ero tinduttir sem biarnigull. þeir bua j skogum oc hafa gul augu oc tenn sem j [hundum oc hafa ęigi[84] manz rodd nema mal. Panadios[90] heita þeir menn er œyru hafa sua mikil at þeir hylia allan likam sinn með. þar ero þeir menn er hafa rossa fœtr.[91] Er su þioð er hornfinnar heita. þeim er horn niðrbiugt i enni. oc ero mannetor.[92] þar ero menn þeir enn er baka er groen við bringu niðr. þat heita hundingiar. þeir ero sua við menn sem olmer hundar.

HER SEGIR·········

(18. bls.) 9. Hin helgi biskop er heitir augustinus[93] melti við þa menn er hann var kennimaðr yfir. Goðer brœðr quað

---

talar Isidorus um Amazónur í Or. IX, 2, 64. — [84]) Ofan í þessi orð er dregið með svartara bleki. — [85]) Þannig ritað. — [86]) *Is. Or. XI, 3, 18: In ultimo autem orientis monstruosae gentium facies scribuntur. Aliae sine naribus, aequali totius oris planitie, informes habentes vultus. Aliae labro subteriori adeo prominenti, ut in solis ardoribus totam ex eo faciem contegant dormientes* — [87]) *Is. ibid.: Aliis concreta ora esse, modico tantum foramine calamis avenarum pastus haurientes* — [88]) *Is. ibid.: Nonnulli sine linguis esse dicuntur, in vicem sermonis utentes nutu sive motu.* — [89]) Plinius hefir *Choromandae. H. N. VII, 2: Choromandarum gentem vocat Tauron, silvestrem, sine voce, stridoris horrendi, hirtis corporibus, oculis glaucis, dentibus caninis.* — [90]) *Is. Or. XI, 3, 19: Panotios apud Scythiam esse ferunt tam diffusa magnitudine aurium, ut omne corpus ex eis contegant. Pomponius Mela, III, 6: Esse equinis pedibus Hippopodas et Panotos, quibus magnae aures, et ad ambiendum corpus omne patulae, nudis alioquin pro veste sint, praeter quam quod fabulis traditur, auctores etiam, quos sequi non pigeat, invenio.* — [91]) *Is. Or. XI, 3, 25: Hippopodes in Scythia sunt, humanam formam et equinos pedes habentes.* — [92]) Samber 66. athugagrein hèr að framan á bls. 26. — [93]) *Augustinus* er einhver hinn ágætasti af kirkjufeðrunum, fæddr árið 354 e. Kr. í borginni *Tagaste* í Númidíu, varð biskup í *Hippo*, borg í Númidíu, árið 395, dó 430. Hann hefir ritað fjarskalega mikið. Það,

han*n*. oft vara ec yðr. oc kenni ec yðr sua sem faðer skal kenna bornu*m* sinu*m* at þer fylgit eigi golldrum nema[94] gerningu*m* illum. Faret eigi með taufr nema lyf. oc engi hindrvitni[95] ef þ*er* vilit hialpa sal yðare. Uer lerðir men*n* eigum at kenna yðr retta tru. oc at bioða yðr guðs boðorð. En þer eigut bliðlega við at taka oc at halda siðan. Nu hialpu*m* ver beði oss oc yðr er ver ken*n*um yðr rettar kenningar. Þa nioteð þer storlega ef þer nemit. en glateð sarlega ef þer *fi*r*ir*glœymið.[96] oc leggið orœct a. Eigi skolu cristnir men*n* spyrja galdra men*n* nema gerninga at heilendis fare sinu. nema oðru*m* fearlutum. oc eigi at þ*ui* hueria kono maðr skal hafa. þo at þeir kun*n*i nokot fra segia sua sem eftir gengr. *fi*r*ir* þ*ui* at þeir hafa spaer fengit af diofuls villu. Diofull er allz til marguis oc flygr oc fer yf*er* alt. oc verðr margs vis. oc segir sinu*m* speingum[97] oc galdramonnu*m* slict af sem han*n* reðr. en þeir segia oðrum siðan fram a leið þeim er þ*ui* vilia lyða. Sumar konor ero sua vitlausar oc blindar um þurft sina. at þer taka mat sinn oc fœra a rœysar[98] vt eða vndir hella. oc signa landvettu*m* oc eta siðan. til þess at landvettir skili þei*m* þa hollar vera. oc til þess at þ*er* skili þa eiga betra bu en aðr. En þær ero sumar er taka born sin. oc ganga til gatna motz. oc draga þau þar i giognu*m* iorð. til heilsu þei*m*. oc til þess at þau skili þa betr haldast oc væl hafast. oc vitu þer eigi þa huessu mioc er þer festa þa born sin oc sialfar sic a hendi dioflenu*m*. nema þer iðrist oc beri til skrifta. Nu verðr kennimaðr marct

---

sem hèr er til vitnað, er að líkindum einhversstaðar í rœðum hans (*Sermones*); eg hefi leitað í þeim, en eigi getað fundið staðinn, sem við er átt. Af því að hèr er skírskotað til Ágústíns, hefir Árni Magnússon talið »eitthvað úr rœðum Ágústíns (*quaedam ex sermonibus Augustini*)« sem einn þátt eða kafla í Hauksbók; en þar með er ekki sagt, að Árni hafi fundið í rœðum Ágústíns þann stað, er hèr er til vitnað. — 94) *Nema* er sama sem *nè* hèr og á fleirum stöðum á þessum skinnblöðum. — 95) *Hindrvitni* er hèr hvorugkent fleirtöluorð, svo sem það er nú hjá oss; en í fornu máli er það venjulega kvenkent eintöluorð. — 96) *Fyrirgleyma* er gömul og góð íslenzka, þótt það sè líkt danska orðinu *forglemme*. — 97) *speingr* (eða *spœingr*) er njósnarmaðr, á þjóðv. *Spüher*, á dönsku *Speider*, á ítölsku *spia*, á frönsku *espion;* sagnarorðið *speja* (= njósna, á þjóðv. *spähen*, á dönsku *speide*, á ítölsku *spiare*, á frönsku *épier*) finst í Grettissögu 91, $200_4$: Nú er frá bónda að segja, at hann fór hvergi á burt, nema hann leyndist, ok vildi *speja* um húsfreyju. — 98) = hreysar, þ. e. urð.

